# Andlegir

# Sálmar,

orktir af

Sál. Sýslumanni J. Espólín,

Utgéfnir á kostnad Sonar hans

Síra H. Espólíns.

Seljast óinnbundnir á Prentpappír 43 ß. S. M.



Videyar Klaustri,

Prentadir af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

1 8 3 9.

# Kjæru Landar!

Eptir sem eg hefi ádur frambodid ydur, byrtast ydur nú á prenti Sálmar, eptir minn sál. Födur J. Espólín, hverjir ad kvednir eru af honum í þeim tilgángi, sem eg ádur hefi í bodsbréfi mínu til ydar ávísad. Enginn ydar skyldi furda sig á þeim anda, sem í þeim sumstadar finnst nokkud ángurvær edur sem í strídi trúar og bænar, því hjá vídkvæmum sannkristnum finnast þessa mörg dæmi og frá gamalli tíd enkum hjá Davíd Konúngi. Lofsaungvar þeir, sem ydur glega fyrirkoma, sýna hjartans audmýkt og hluttekníngu í Guds kjærleika, og loksins hinn sídasti Sálmur, hvør ávøgstur ad lyktum muni verda trúar og bænar. Mannsins sérdeilislega sálar ásigkomulagi lýsa þeir enkar vel, og hversu ad þvílíkt hugarfar géti sameinast frábærum lærdómi, fródleika

og gáfum. Af þeim má læra mannþekkíngu, og með þeim verður sýnt, hversu elska og traust á Gudi að lyktum vinnur sigur, yfir øllum freistíngum og hindrunum. Enn hver sá sem máské fyrir sakir skorts í andlegri reynslu, ekki gjæti felt sig við sumt, gétur þó ei hjá því farið, að finna héri dýrðliga lofsaungva, í ekta Evangeliskum anda, Gudi og Kristó til æru. Verk þetta, sem framkomið er af høfundsins hrærðu hjarta, óska eg að aptur fái inngáng til hjartnanna, svo að ávøgsturinn verði sá tilætlaði,

Guð gefi yður øllum, að uppskéra tilætlud not og gagnsemi, þessarar litlu bókar.

Stærri-árskógji þann 2ann Sept. 1838.

H. Espólin.



# 1. Sálmur.

Qvedinn í hardærinu 1802.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur.

Gud! sem ad stjórnar hvørjum heími, Herra í þeirra vída geimi, allt hefur þú af engu skapt, eilífann fyrir dýrdar krapt.

2. Orma Fadir sem Engla Drottinn! umbyggju þinnar prísar vottinn, grasstráid hvørt á grund sem er, gégna himnar og jørdin hér.

3. Hví lætur þú nú, Herra slíkur, hugsvølunar og nádarríkur, oss lengi sakna líknar þó, sem loford þitt oss fordum bjó.

4. Hví lætur þú sem heillir skapar, himin oss verda og jørd sem kopar? straungum var vetri steipt á heim, stríd fyrir sumar fylgir þeim.

5. Hví villtu, Fadir lífsins! láta, líftjón hreppa svo yfirmáta, saklausann fénad, verk þín væn, vora sem heyrir ekki bæn?

6. Í hug mér þína hyrtíng minda, hér ei sem sérlegt straffið synda, utan hvað gott sér enginn veitt, af hér verðskuldað hefir neitt.

7. Væg því vor allra vondsku hætti; veit þinn tilgángur fyllast mætti; hefi' eg þá vissa hjartans trú, hann góður er sem sjálfur þú.

8. Hann er að vekja upp vorn anda, svo allt vér látum traustið standa, á sjálfum þér þá særir kross, en setjum enga von á oss.

9. Hann er sá annar oss að kénna, þá aumka sem að þrautir spenna, þegar vér reinum þeirra böl, og þreytir oss hin sama qvöl.

10. Hann er og sá að höfnum audi, hyggju og fégyrnd áður enn dauði, övörum dregur oss því frá, elsku sem mesta höfðum á.

11. Hann er sá einn, að hljótum sanna, hjálpa sé þitt enn ekki manna, þegar oss neyð er flúin frá, fullkomlegast það meigum sjá.

12. Verlega er hann að böl og kífið, búi sál vora undir lífið, það sem um eilífð eptir fer, elskan þá heimsins farin er.

13. Nú samt, minn Drottinn!

neydin strånga, nóg sýnist hafa tíð um lánga, hyrt oss og agað ei lát nú, óþolinmædi kefja trú.

14. Leið þú oss ekki inní freistni; öndin mín á þig jafnan treisti; lof sé þér fyrir það orðið er, útúr nauðunum svíptu mér.

## 2. Sálmur.

Yðrunar andvarp sama ár.

Lagið; Nú bið eg Guð þú náðir mig

Guð! sem ert eintóm gjæðska og náð, Guð! sem ert eilíf kjærleiksdáð, aumkaðu, Faðir! aumann mig, eg kryp nú flatur fram fyrir þig, eg hefi Sonar arfleifð mest, útsóað, verkin framið verst, þitt sem að dæmir eilíft orð, allt eins og þjófnað, hór og morð.

2. Þú hefur géfið meira megn, mér til að stríða syndum gégn, og vit, enn þeim sem víða hvar, um veröld böðuls örin skar, og mörgum er ei sáu sótt, enn synd í miðri dóu fljótt, heiðnum og Tyrkjum miklu meir, mun eg þó varla betri enn þeir.

3. Opt hefur náð þín undarlig, í mínum syndum sparað mig, hvar

væri' eg nú ef hefdi' í heim, hvass-vígur daudi sókt mig heim? O Gud! hve blygdast ætti' eg nú! undrunar-lega vægdir þú; ó Gud! hvor nægir ydran mér? ordlaus, minn Gud! eg stend fyrir þér.

4. Er hér nú, Drottinn! eckért rád, annad enn bidja þína nád, sem skapti mig til sælu fyrst, og sendi mér til lausnar Krist, ad vegna sín hún vægi mér, vegna þess píndur Jesús er, vegna þess ad þú elskar mig, og vegna þess eg treysti' á þig.

5. Tilgángur þinn ad vísu var, ad vernda mig til ydrunar, þegar sparadir mig sem mest, miskunin sú mig huggar best; enn til dóms verda ecki lát, ydrunar þennan harmagrát, vegna þess lasta vegu á, villist þér aptur lengra frá.

6. Umfram allt, Gud minn! géfdu mér, geti' eg héreptir lifad þér, og þó eg hrasi þá mig reis, þú mína sál úr háska leys; legg ei á straff í heimi hér, enn hyrting einsog likar þér; annars heims, bægdu böli frá, bid eg mig þad ei látir sjá.

### 3. Sálmur.

Bæn um náð Guðs. Nær somu tíð.

Lagið: Aví, aví, mig aumann mann.

Guð! mitt lið! Guð! eg bið, gjæt að mér, hrópa eg ódt, af ángursbrótt, á eptir þér, liggur við þú hverfir hér, hugarsjón sem dapraſt fer; gleimdu því sem :,: afgjört er. :,:

2. Láttu mig, svo lofi eg, nú lið þitt sjá, upplís mína sálar sýn, enn sviptu þrá, sæli Fadir! seig nú já, synd lát ekki fyrirstá, að þinn megt eg :,: Andann fá. :,:

3. O, Guð minn! ó Guð minn! upplís mig, lát þinn Anda, varna vanda og villustig, svo mér gefist gledilig, gjæfan sú að elska þig, af því kjætti :,: Ond mín sig. :,:

4. Ef að mér, ann þú hér, í anda þitt, auglit sjá, mun eydast þrá og ángrið mitt; lítt um géngið hyrði eg hitt, huggast við að synd er kvitt; blessadur! hennar :,: bøl lát stytt. :,:

5. Mikið braud, megnis aud, mér ei kýs, óvin hrjá, né undir slá, þar óvild rís, eda mikinn maktarprís; miklu heldur þín sé vís, náð, þó fylgdi :,: Foðurs hrís. :,:

6. Mótgáng einn, ecki neinn, afbid hér, nema þad ad nokkur madur naudgi mér, tælandi sem tídast er, til ad krjúpa ad fótum sér, enn allt vil feginn :,: þiggja af þér. :,:

7. Enn minn Gud! enn minn' Gud! ástgéd best, eg grátbid þitt, ad géfa mér kvitt, hvad gjørdi' eg vest, og nádar andans adstod best, svo á þér verdi trúin fest; þá mun dygdin :,: þróast flest. :,:

8. O þá stund, er mín lund, æ mun þrá, ad nádad sinni, sál mín finni sér í hjá, vonin trú og bolgéd þá, brjóta hennar aldrei má, himins pantinn :,: eg svo á. :,:

9. Þá er eg vís, ef þad sem kýs, þetta fæ, innan stundar yndis fundum ædri næ, Herrans lofs þar horpu slæ, úr heimsins leystur ólgu sæ, gladur og sæll um :,: eilífd æ. :,:

10. Jesú qvol, blódugt bol, og bitrann deyd, ei á mér lát ónýtt vera, er endar skeyd, eptir skil mig ecki í neyd, útúr daudans grifjuleid, Drottinn! minnstu :,: á þinn eyd, :,:

4. Sálm.

## 4. Sálmur.

Þackláetis sálmur fyrir Guds andlegu velgjorninga — 1803.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hvør sem kann.

Upp mín sál! ad gjøra Drottni skil, hjálpi mál, hans mildi' eg prísa vil; manninn skóp til miskunar, máttarins Herra, øndu hans því ætlad var, aldrei líf þverra; æfdi hann, hlýdnina vidur, óreindann aldanna smidur; gledja vann, géd sæld og fridur; undir lagdi verk sín væn, honum øll sem heimi í, hann mátti nota, hon. ø. s. h. í, hann m. n.

2. Enginn veit almættis Herrans rád, hvad hans heit, hefdi veitt gjæðska og náð, manni, ef stadid hefdi hann, hlýdinn frá fyrsta; enn sem þad nú ecki kann, og neyd vard gista, annad þá, enn meira veitti, Drottinn sá, dýrd Engla skreytti; eilíst guddóms einka ráð, hann lét boda heimsins lýd, huggun og frelsi, h. l. h. h. l. hugg. og frelsi.

3. Lét svo mann, lifa vid trú og von, þartil hann heimi sinn sendi Son, Jesúm Krist, sem kéndi dygd, kvøl þoldi' og dauda, yfirgaf svo alda

bygd, uppsté til hæda; sínúm hann, sinn veitti anda, traustleikann, trygd í ad standa, forsmá bann, fár og heims vanda; dýrust vard þá Drottins ást, jardar kunnug miklu meir, mönnum enn ádur. j. k. m. m. m. enn ádur.

4. O þá nád, oss veitti Drottinn þar, Son sinn þjád, synd fyrir veraldar, hefur, enn sídan hafid oss, med honum til ríkja; þó lída eigum lítinn kross, lof fyrir slíka, mildi vér, mælt ekki fáum, svosem ber, sífeldt þó tjáum, Drottinn! hér, dýrd maktar háum; hvad er madurinn, Herra! þess, samerfíngi Sonar þíns, í sælu ad vera? s. e. S. þ. í s. ad vera.

5. Þó er oss, óljós enn Drottins ást, ædstu hnoss, enginn fær nóg adbást; andans gledi öll er vís, afl, vitska, prídi, sæl tilfinníng, sómi, prís, sigur á strídi; enginn mann í hug sér leida, heill þá kann, hvörja tilreida, Drottinn vann, þeim vondu frá sneida; ó hvad mannkin er þá blindt, hégómanum hálfu meir, hér sem ad skeytir, h. h. m. þ. s. ad sk.

6. O, mín sál! alsæld þér Drottinn bjó, heims ei tál, hindra lát þína ró, hvörki ad sorg né gledi

glaum, gef þig í heimi, heims kjör líkjast hverjum draum, hradt sem eg gleymi; er ei þad efni til gledi, á Drottins stad, stefna med gedi? bid eg ad, blessadur tedi, Gud fyrir Krist mér gjæfu þá; þó hundrad bída' eg ætti ár, ódum þau lidi, þ. h. b. æ. e. á. o. þ l.

7. Fyrir slíkt, Fadir! þér eilíft sé, lofid ríkt, látid sem mest í té, af øllum þeim sem út frá þér, øndunum fljóta, dýrdin þín sú óþenkt er, aldrej mun þrjóta — bid eg þig, bæn hjartans heilu, þó heims á stig, harms lídi kjælu, bú þú mig, best undir sælu, þá sem ætlud þínum er, ad þína elsku reini eg rétt, rírt er þá annad, ad þ. e. r. e. r. r. e. þ. a.

## 5. Sálmur.

Þakklæti vid Jesúm Krist Guds Son.

Lagid: A Gud alleina.

Eg, Jesú! trúi, á þína písl og deyd, þú hefur búid, þrótt mer í allskins neyd; ef ad eg færi, ad elsku dæmum þín, leystur eg væri, líka frá synd og pín; dreirinn þinn skjæri, dugdi mót brotum mín.

2. Eg, Jesú! trúi, á þína makt og náð, frá þeim er smúin, sem fara með spott og háð, Guð hefur gefið gjafir og vóld; þér há, og yfir hafið, allt það sem nefnast má, dýrð ber þér og lofið, vor Drottinn! Guði hjá.

3. Þú hafðir sælu, þegar frá föður þín, í eymdakjælu, útgafst þig vegna mín; í eðli manna, ást þín til hjálpar greið, sýndi veg sannann, síðan píslirnar leið; aðgáng fékkst oss annann, enn áður með þínum deyð.

4. Braut beztu dygða, þú búið hefur oss, þeim' kennt að hrygða, hretin og strángur kross, ei gjæfu eyðir, en optar Guðs á veg, og lífs braut leiðir, líka' að sannarleg, ást þér á framreiðir, allt það sem þarfnast eg.

5. Með þinni mæðu, meztann þú sigur fékkst, og dýrð á hæðum eptir það krossi á hékkst, varst manna Drottinn, vottaðir elsku þeim, þrátt veittir þróttinn, þínum, sem liðu í heim, dauðans þeim nóttin, dýrri varð makt og seim.

6. Mér bjóst þú mæti, mikið er ástverk það, og andans kæti, í þín-

um dýrdar stad, ef eg þig stunda, æski af hjartans rót; sætt mun þá blunda, ef sál kémur þú á mót, til þinna funda, tálmar þó syndin ljót.

7. O veit eg kynni, ætíd svo lifa hér, ad øndu minni, eg ætti víst hjá þér; daudi þinn dýri, Drottinn! forlíki mig, mér þángad stýri, sem má umgángast þig, ad þér lof skýri, um ár óþrjótanleg.

## 6. Sálmur.

Andvarp þess sem er umvendtur frá veraldlegu sinni, enn undirlagdur hrøsunum, bidur og finnur ei til bænheyrslu. Sama ár.

Lagid: Mitt hjarta því svo hryggist þú.

Hvar fyrir Gud! svo hylur þig, heyrir ecki né frelsar mig? en eg þó einatt hér, leita þín til líknar mér, líkt sem skipun sjálfs þíns til er.

2. Ei bad eg þig um audsins mergd, óvina tjón né hefndar sverd, þitt yfir þeim ad fá, né laungu mega lífi ná; lyst mín var þína miskun ad sjá.

3. Hví hefur Jesús Herra minn, hermt ad þú gefir anda þinn, þeim

sem að biðja þig, og að manneskjan
ógudleg, yfir sín børn miskunni sig?

4. Víst hafa orð þau sann í sér,
sjálfum og neita ófært er, hvað veld-
ur þessu þá, að eg sæ þau ekki sjá,
øndu minni framkomin á?

5. Vel má það svar mér veitast
eitt, vanti mig hafa beðið heitt, eða
fast ásett mér, að lifa eins og líkar
þér, lastvarlega í heiminum hér.

6. Enn þessa náð eg umbað þig,
að vildir þartil styrkja mig, því veit-
ur ætíð eg, að gánga lífsins greið-
ann veg, gét ei orkað máttvana mieg.

7. Þegar eg ásett fastast féck, að
flýa heims og holdsins breck, eins
var sem uppá ný, allir hlutir øptr-
uðu því, enn dýpri nauðir féll eg
þá í.

8. Þegar alvøru meinti' eg mér,
mesta til þess að þóknast þér, þáskinn
var hærstur þá, hug minn dró þér
hann í frá, hálfu dýpra fallinn
eg lá.

9. Aðrir sem treista á sjálfa sig,
og síðst um liðstyrk biðja þig, vita-
laust fara framm, bíða hvørki bøl né
skamm, blíðu reina og veraldar glamm.

10. Veitstu þó, Drottinn! vanmátt

minn, veitstu hvad eg er fráfnúinn, veitstu mitt hjartad hardt; lát þess vonda ecki art, adskilja mig vid ljósid þitt bjart.

11. Þesshóttar dóm eg þó ei skil, þegar eg feginn hlída vil, og þig af alúd bid, ad þú veitir ecki lid, illskunni mér ad sporna þá vid.

12. Utan ef syndin ærin mín, ydrum miskunar hefdi þín, med øllu apturlæst, og engin nád mér optar fæst, eda kraptur betrunar ljæst.

13. Þó vil eg vona um þína nád, og þúsundfalda gjædsku dád, stadfost sé utan ef, af því, Drottinn! ásett hef, yfirbót, og á vald þitt mig géf.

14. Svo víst nú, Gud! er satt um þig, ad sjálfur verkir vilja' og dug, veitir þú máttinn mér, fyrst ad viljinn frá þér er, og Frelsarinn hét bænheirslu af þér.

15. Møgulegt er ei, gódi Gud! ad gjædska og nád þín hábleśsud, útskúfi aumum mér, hvad syndugur sem eg er, sorgandi þá spyr eptir þér.

16. Þín miskun, Gud! sem ædri er, øllum hlutum sem skiljum vér, um sídir sjá mun rád, ad láta mig fá

nóga náð, nýtt lof skal það guðlegri dáð. Amen.

## 7. Sálmur.

Bæn um framhald Guðs náðar.
Sama ár.

Lagið: Guðs Son kallar komið til mín.

Mýskun þín, Guð! sem meiri er, enn menn á jörðu skinja hér, og vægð mér veitta hefur, minn andi hrópar mjög á þig, minnstu þess að þú frelsir mig, því að mig vandi vefur.

2. Þú gafst mér, Drottinn! þína náð, því haldtu mér við trú og dáð, verk þitt ónýtist eigi; þú hófst að bjarga veslum við, veit mér nú stirk og náðarlið, að Drottins Jesú degi.

3. Ef forða viltu fári mér, og fría mig frá øllum hér, óvina hópnum illa, sannlega prís þér segja skal, síðferði mitt og munnsins tal, þá frelstra hóp mun filla.

## 8. Sálmur.

Bæn og heit. Sama ár.

Lagið: Um dauðann gef þú Drottinn mér.

Mitt hjarta Drottni heita vill, himna og jørð sem skapti, að forðast verk og atvik ill, og girnda sjá við hapti;

þína eg miskun þartil bið, þú Guð! að veita stirk og lið, með þínum mikla krapti.

2. Eg bið þig fyrst um anda þinn, eflíng á bygða vegi, og viðqvæmt hjarta sérhvurt sinn, svo gleimi þér aldreji, en varist heimsins hreckja stig, haldi mér jafnan fast við þig, Drottinn! á hvörjum degi.

3. Anægju sinnis, yndi, frið, og húsßins tilstand væra, þar næst eg veita þig mér bið, þá skal eg lof- gjörð færa, efni og styrk án annara, aðstoðar heimsins gjæðínga, með hófi mig að næra.

4. Enn framar það þú eflir mig, embættis míns að gjæta, og hvörjum færa fyrir sig, faung þau mér náðu bæta, svo að eg óttist engann mann, og engann þurfi að treista á hann, er mig ei kan að kjæta.

5. Afkvæmis lán ef ætlar mér, af- kvæmi nockru halda, líka, minn Guð! vil þiggja af þér, og þackir fyrir gjalda, orku og krapt að efla þá, undirþryckta, sem best kann sjá, ná- úngans velferð valda.

6. Fyrir þíns guddóms eilíft orð, ó Drottinn! veit mér þetta, fyrir

þíns Sonar fórn á jørd, fyrir hans qvøl ei létta, fyrir þín heiløg heit og dýrd, í hædum sem þér verdur skýrd, sálargyrnd mína metta.

7. Eg heiti gjarnan þar med þér, hverúdar synd ad flýa, og varast hvad sem íllt veit er, á móti þér ad drýgja; en hitt sem þér til vilja veit, vil eg ástunda lífs um reit, og æ mig endurnýa.

8. Þótt ad eg viti þetta er, þarf-ast mér sjálfum ydja, framar til dýrdar, Drottinn! þér, dádleysi burtu ridja, eg fýsist ef þú eflir mig, í øllu því sem bad eg þig, og villt minn viljann stydja.

9. Þá verd eg hæfur þartil sem, þú mig áqvardad hefur, uns eg til þín í anda kém, á medan holdid sefur; Sáttmáli þannin sé nú gjør; sjái og styrki hann Drottinn vor! ei Gud mig yfirgefur.

## 9. Sálmur.

I tilliti óvildarmanna. Sama ár.

Lagid: Lifandi Gud þú lít þar á.

Hvarfyrir eins og hafsins flód, heimsins gjædíngar duna? raust þeirra er sem reidarhljód, reidi lík

æſtum ſuna, óþarfar þrætur auka hér, eins og þeir jafnan hugſi ſér, á vinda vængjum bruna.

2. Þeir egna þann ſem elſkar frið, og á hann fyrri herja, en veita honum aldrei lið, mót órétti ſig verja; eigna dýrð alla ſjálfum ſér, ſem fyrir lánið Gudi bér, einaſta á frómum erja.

3. Ef þeim nú veitiſt ofaná það, yfirbuga hann fróma, ſvipta fé, virðíng, ſældar ſtað, og ſinnis gledi ljóma, en hann á Dróttni hafði trú, hugði ſig verja mundi ſú, mót ſkada ſkémdar dóma.

4. Hvað á eg, Guð! að hugſa þá? hvurt muntu þeſs ei gjæta? ſpottara muntu ſvoddan ſjá, ſem þinni ſtjórnan neita, ſetjandi á ſig ſjálfa trauſt, ſøgdum géngur þó harmalauſt, veitt er þeim ſem þeir veita.

5. Enn það er víſt þitt endurgjald, yfir mun gánga ſlíka, munu þeir ſjá þitt mikla vald, og maktar ſtjórnun ríka, oflætis þeirra eydiſt trauſt, utan þeir ſnúiſt hræsnislauſt, og harmi hrecki líka.

6. Þér ſkuluð vita, veſlir menn! að von er brádt á dauda, ødrum ei

verdið æðri senn, er lík í hjúpnum
snauða, eðdin í geymslu, en rygtið
rírt, ríkdóm í áttir ýmsar stýrt, eða
í eldinn rauða.

7. Athafnir naktar yðar þá, allar munu menn dæma, vyrðíng ei meiri munuð fá, enn margir sem héldud slæma, því enginn hræðist yðar makt, allt lofsverðt fyrir laungu útsagt, þarf yður enginn ræma.

8. Samvitskan yðar allt mun víst, í öðru líta ljósi, enn fyrri var, því verður síst, veraldar þægð að hrósi; þar fyrir utan Drottins dóm, fyrir drígða synd við börn hans fróm, ört yfir yður kjósið.

9. Þú veitst þó, Guð! eg vil ei það, vinna til lítils góða, að óvin mínum eymda bað, í steypi hrigðar glóða, rángindi hans, því heyr nú mig, heldur eg bið, hann þekki sig, þá skal eg lof þér ljóða.

10. Snú þú nú, Drottinn! hraðt um hæl, þeim heiptir við mig rækja, von þeim til skammar verði' ódæl, að vilja mig svo flækja, sýn þú mér að þú sjáir mig, sýn þú mér að þú munir þig, láttu mig sigur sækja.

11. Þú verður, Guð! að veita mér,

fyrst von hef á þig setta, eg líka treysti ætíd þér, ad víst þú gjörir þetta; leif ei ad veikliſt vonin mín; veit mér nú lid fyrir gjædsku þín; Drottinn! lát mig ei detta.

## 10. Sálmur.

### Lofsálmur med Nýari 1804.

Lagid: Hvør veit hvad fjærri er æfi endi.

Heyr Gud! mitt kvein, hvørs hærsti máttur, heims efnum rædur, skapar menn, heilbrygda barn mitt, hrósa láttu, ad heyrir, sjáir, stjórnir enn, þá vil eg rækja þín øll bod, þú lífsins Fadir! daudans Gud!

2. Svo bad eg, og med ordum fleiri, á medan sjúkt mitt barnid var, enn Gud! þín miskun, øllu meiri, adgjætti mínar þreingíngar, þad er þó satt ad þú ert sá, sem þarfir allar lítur á.

3. Lofadur sértu um aldir allar, af øllum þínum verøld í, og ædstu búum uppheims hallar; allir heimarnir lýsi því, ad þú sért gjædska og eilíf nád, elskunnar brunnur fylltur dád.

4. Þú sanni Herra! sjálfur lifir,

sem ádur frelstir Israel, stjórnar og rædur öllu yfir; ef eftir mig og blessar vel, reyna vil eg ad rækja þig, reyn mig, minn Gud! og heyrdu mig.

## 11. Sálmur.

Bæn í móti óvildarmönnum. 1805.

Lagid: Hvarfyrir einsog hafsins flód.

Gud Drottinn! eilíft athvarf mitt, á þig nær gjöri kalla; hef eg mátt treysta á hjálpráð þitt, Herra! um lífstíd alla; og enn þá trúi' í öllu þér; enn adrir margir sjálfum sér, hellst sem ad réttu halla.

2. Overdugleika veit eg minn; von hef þó á þér festa, ad ecki látir óvininn, yfir mér fagna versta, sem ódur geysar upp á mig, enn engann veginn þeckir sig, meinar sig megn ei bresta.

3. Þeir sem eg hugdi' ad gjöra gott, gledjast af tjóni mínu, reidubúnir med spélni og spott, spara mér ei þá pínu, sem af því kémur allra mest, ad ógudlegum fylgja best, í brjótsku þrái sínu.

4. Þeir reida sig á fals og flærd, forstand sitt þartil hafa, géfa ei

frómum grid né værd, gjarnan þó fagurt skrafa; þeir taka rádin saman sín, ad sigta verk og ordin mín, og vilja gröf mér grafa.

5. Sjálfur skapti mitt sinni hreint, svik vildi og engin læra, fölskvalaust heldur ljóst og leint, lidsinni veikum tæra, enn hegna illum, hrad ei má; Herra! þú munt ei uppá sjá, í fordjörfun mig hann færa.

6. Fyrir þá miklu gjædsku gnótt, sem gjördir opt mér veita, ó! Drottinn Gud! mig frelsa fljótt, frá þeim mig tídt áreita; vegna þess eg svo vona á þig, verdur þú, Fadir! ad heyra mig, naudstöddum mátt ei neita.

## 12. Sálmur.

Lofsaungur. Sama ár.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud!

Hvörjum á eg ad þacka þad, þraut mig ad eingin felldi, og leiddur er úr illum stad, ei fyrir mannlegt veldi, í betri annann mér, aptur til þessa hér, sem framar fríar mig, frá mörgum naudastig, er mína öndu hrelldi?

2. Hvörjum á eg ad þacka þad, í þíngslum synda nauda, sídasta minn

eg sá ei stad, og sökk í kafid dauda; hlaut þad til heilla er, hlutskiptid besta mér, fyrir hvad forþént var, fár eydileggíngar, á vegi trúar-trauda?

3. Þér alheims Gud! eg þacka má; því er mér skyldt ad treysta, sífeld-lega þig einann á, og mig í þér ad hreysta; þín mildi mikil er, minn Gud! sem veitir mér; endurgjald ecki til, á eg, enn gjarnan vil, hlídn-innar framast freysta.

4. Veit mér þad, dýrstur Drottinn minn! til dýrdar Syni þínum, vil-jann eg ætíd vakti þinn, á vegum öllum mínum, æ hvar eg er og fer, audmjúkur fyrir þér, til þín ad treysta snar, trúadur, synda var, aflétti aum-ra pínum.

5. Veralda Gud! og skapari skjær! skepnan öll lof þér sýngi, því ad þín eilíf ástin kjær, um hana jafn-an kríngir, himnanna himnar traust, hafa' á þér endalaust; sannlega eng-inn er, ó, Drottinn! líkur þér; hrós þitt á hædum klíngi.

13. Sálm.

## 15. Sálmur.

Bæn og lofsaungur. 1807.

Lagid: Snú þú nú aptur enn til hvíldar.

Gud! minn lofsaungur, Gud! mitt traust, þú Gud! mín hlíf, Gud! sem opt hefur geymt mitt líf.

2. Medan eg lifi mun eg kvaka miøg á þig, hefur þú jafnan heyrdann mig.

3. Þú veitst þad, Gud! ad þér hefi treyst og þackir tjád, og eckért minni eignad dád.

4. Eg vænti því þú verndir mig, og veitir lid, sem optsinnis áf alúd bid.

5. Hefur þú líka hjálpad mér vid heims adkast, þar sterkir féllu stód eg fast.

6. Fyrir þá miklu miskun þína, minnst þará, láttu svo allann aldur stá.

7. Þó stórann aud ei aukir mér þad allvel fer, enn þótt ei spillti medferd mér.

8. Þú hlítur gløggvast þad ad sjá, og því fer best, á hønd þér feli mig sem mest.

9. Þótt heilsu ecki unnir mér,

sem af mér braut, vel má eg líða
þessa þraut.

10. Vildi þó æskja' að veita þóck
og vera trúr, krom ef eg minni
kjæmist úr.

11. Mína eg hlýðni mjøg lítt þecki
meðan eg, þykist ei finna fríáls-
ann veg.

12. Enn hér skal láta þetta falið,
þú Guð minn! vísdóms er enginn
endi þinn.

13. Máské þú leifir mér að orka
meiru' enn nú, í hinn þegar leiðir
heiminn þú.

14. Eg hef það reynt að ærins góðs
mér anntu hér, verðskuldan mín þó
ønnur er.

15. Gjørðu þar ecki endann á, eg
æpi á þig, annast í nauðum mína og
mig.

16. Verndaðu þúngri þreyngíng
frá og þrauta pín; þverruð er ork-
an þeirr' og mín.

17. Miskuna þú minn góði Guð!
með gráti eg bið, þeim eg á mest að
vyrða við.

18. O, Guð! hvað margir ófar-
sælir eru menn! forðaðu því þeir
fjølgi enn.

19. Afmáðu syndir allar mínar einsog ský, forðaðu því eg falli' á ný.
20. Fyrir þitt nafn og Frelsarans Jesú feikna pín, forðaðu nýu falli mín.
21. Unntú þess mínu afqvæmi og ættar lið, að ydka dygð og deya í frið.
22. Unntu því þess að géta og gjöra gott það margt, sem mér frá bægði heimur hardt.
23. Heiðri þig Drottinn! himnarnir sem hefir skapt, mikli þinn eilífð mesta krapt.
24. Andar þig, Drottinn! allir lofi, ekkért hlé, þará um allar aldir sé. Amen.

## 14. Sálmur.

Bæn i móti syndinni. Sama ár.

Lagið: Hvør veit hvað fjærri er æfi endi.

Minn Faðir! Guð! sem géfur lífið, gjættu þarað eg hrópa á þig, synda straffs míns hið sára kífið, Son þinn blessaður tók á sig, hann sveittist blóði hels af neyð, hann yfirgafstu um qvalaskeið.

2. Minn Guð! hann dó, því máttu eigi, mig láta deya syndum í, unntu

mér lífs svo lengi ad megi, frá löst-
um öllum verda frí, svo þitt stórvirki
ei mér á, ónítist, Fadir! hédan frá.

3. Akallad þig og á þig trúad, af
öllum mætti hef' eg tídt, því máttu
frá mér þér ei snúa, þótt ad eg syndg-
ad hafi strídt; ei mætti sannast ord-
in þín, ef einkis megnar bænin mín.

4. Hún skal þess jafnan vitni vera,
ad viljad hefi eg þóknast þér; ei-
lífdar til skal æ frambera, ákall og
lof þitt, Gud! af mér; minn Fadir!
heyra hlýtur mig, hér medan lifi' eg
sárbid þig.

5. Ek lét synjandi engann fara,
er mátti vinna nockra bót, eg vond-
ur, Gud! þú verdur svara, víst þá
eg bid um nád af rót; lofgjörd-
ar votti ord mín æ, um eilífd hjálp
ad þína fæ.

6. Mér ógudlegum Son þinn
sendir, sviptir mér vondum útúr
neyd, híngad til frá mér fári vend-
ir, og færdir mig á slétta leid; hví
munt þá bregdast hédan frá? Herra!
þig treysta skal eg á.

7. Kvelling og syndir kefja trúna,
qveik er því líkust sloknum nær;
sem þickva gégnum þoku núna, þinn

gjædsku ljómi fyrirslær; eg veit þín náð mér aldrei þver, allt eins þó nær sé horfin mér.

8. Géf mér svo mikla gledi' í anda, Gud! og svo litla sem þú villt, eg veit það mun fyrir engu standa, né af því minni vel-ferd spillt, íllverka muntu afmá gjald; allann mig fel eg þér á vald.

## 15. Sálmur.

Ydran og grátbeidni. Sama ár.

Lagið: A Gud alleina.

Gud minn! mér géfur, gagn heims sem þorf er á, ei brostið hefur, yndi mér sjálfum hjá, med það er farið, midur enn verdugt er; svo er því varið, syndin er øflug mér, opt nær ecki varið, á hana vinn eg þér.

2. Þó gjørdir græta, Gud! mig er meir enn von, óhlídinn bæta, óskar med hyrting Son, ef eg svo mætti, óverdann kalla mig; ef dyrf-ast ætti, ad kalla Fødur þig, hvílikt mesta þætti, mér þægd ómetanleg.

3. Synd sorgum veldur, sótt og meina fjøld, einúngis hrelldur, eg fyrir sjálfs er vold; enn ángrast

aldri, eintómt heims við stríð, nema þá skvaldri, nauðugt hans afbýð, það sem andans kaldri, að þrauta verður hríð.

4. Ei lát nú saka, orð þíns Sonar nein; því verður taka, þann í burtu slein, ef þau ei efa, óstyrkt freistast geð, þú hlýtur gefa, þinn mér anda með, syndagjöld sefa, svo mér náð sé téð.

5. Eg þig sárbeiði, sem orkað fæ eg mest, andlegri eyði, eymd þín nádin best, farinu forði, færi hjálp þá blíð, sem Jesú orðin, síðst á píslartíð, þá hrelldur til þín horfði, hafa áunnið lýð.

6. Lán auðar, aldur, álit, heilsa, makt, sé þér alvaldur, sjálfs í umráð lagt, hvørt villt mér veita, í veröld eður ei; lát þol ei þreyta, þó mér segir nei, um gleði, og gyrnd óneita; gjæt mín best þá dey.

7. Náð, Guð minn góði! gjæfu allri mín; hátt og í hljóði, hrópa eg æ til þín; allann mig gefa, eg vil þér á vald, ei lát mig efa, elsku og syndagjald, Krists, en leif mér lifa, laus við glæpahald.

8. Leif mer lifandi, að lofa Drott-

inn þig, og lífs á landi, í þér gledja mig, um eilíf árin, áſtar Sólin dýr! ſyndanna ſárin, ſál mín þá umflýr, ángur, ſtygd og tárin, æfinlega hér.

9. Mig muntu láta, mildi Gud! um ſíd, áſt þína játa, eilífdar um tíd, þátt ſigri hróſa, ad hnecktri ſynd og pín, hvad hellſt vill kjósa, hlýtur ſálin mín, medal mergdar ljóſa, þar myſkun gudleg ſkín.

## 16. Sálmur.

Oſt. Samá ár.

Lagid: Hvør veit hvad fjærri er æfi endi.

Ef Gud mér vildir gjæfu ſenda, gyrnd hefd' eg til ad príſa þig; ef gjørdir burt því øllu venda, optlega ſem nú þjáir mig; ſamt minn verdleikur enginn er, umfram hann lángt þú veittir mér.

2. Undirþrycktann eg eflá ſkyldi, ef orka þartil gjæfiſt nóg, ørſnaudann gledja opt eg vildi, ef mér velfeinginn léntir plóg, ſamt minn verdleikur ei þad er, umfram hann lángt þú veittir mér.

3. Adra til góds eg vildi veckja, vid egin dæmi farſæl mín, ef ánaud

vyrdtíſt alla hrekja, frá øndu minni, nádin þín, ſ. m. v. e. e. um fr. h. l. þ. v. m.

4. Eg vil þig ſtunda, ei þó hljóti, annad enn ljúfaſt villt mér tjá; þó trúar óttiſt orkan þrjóti, af alhug vona þig ſkal á, því minn verdleikur enginn er, um fr. h. l. þ. v. m.

5. Þín fóðurhønd mig hefur leiddann, hún kann ad greida beſtann veg, híngad til því hann hefur greiddann, henni mín efni fel nú eg; Jeſú verdleikur ærinn er, ávøxtinn hans þú géfur mér.

## 17. Sálmur.

Packargjørd. 1808.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd,

Lof ſé þér, Drottinn dýr! Drottinn í hædum býr, álítur þó hinn auma, ángrada og trúarnauma; hrós eilíft Herrans vari! himnar og jørdin ſvari.

2. Hann lét mér híngad til, hag falla opt í vil, hefur vid háſka varad, hefur í ſyndum ſparad, hr. eil. H. v. h. o. j. ſ.

3. Nærfærinn nærſta er; nád til audmýktar mér, hér umfram veitta

hefur; huggun í sorgum vefur, hr. eil. H. v. h. o. j. s.

4. Sviptir ei anda sín, sálin þad finnur mín; þó meir enn maklegt væri, og mér útskúfun bæri; hr. eil. H. v. h. o. j. s.

5. Mun hann því veita mér, mín sterk þad vonin er, einhvørn stad eptir sýki, í Jesú dýrdar ríki, hr. eil. H. v. h. o. j. s.

6. Þar mun øll þræta gleymd, þraut lokid, synd og eymd; miskun Guds mun eg þá frægja, mér ad hann skyldi vægja. hr. eil. H. v. h. o. j. s.

## 18. Sálmur.

Audmjúk bæn. Sama ár.

Lagid: Af djúpri hrygd ákalla eg þig.

Eg hefi bedid einatt þig, ó Gud! í þørfum mínum, hefir þú ætíd heyrdann mig, af himni tignar þínum; hví muntu þá ei heyra þad, Herra! sem optast um eg bad, eydandi eymd og pínum?

2. Fyrir þitt guddóms eilíft ord, og Jesú píslir ríkar, hreint gef mér sinni hér á jørd, hvørt þér í øllu

líkar, þídum kjærleik og þoli með, þakklætisfullt og stødugt geð; af því lát aldrei víkja.

3. Annars hlutar eg óska vil, af øllu hjarta feginn; og þó er en hið þridja til, þinn vilja er undirhnegi; þá veitir þitt sem óskað er, og eink=anlega hið fyrsta mér, auðsstyrk né afla' ei þreyi.

4. Það annað er, sem þín veit náð, það menn mig engir fái, fellt eða aukið forþént hád, svo fagna slíku nái; framar ei ræði þó um það; þú veitst hvørs eg í anda bað, jafnvel þó hrøsun hrjái.

5. Enn hið síðstnefnda, ef þú mér, af miskun vildir bæta, krøm nú allþúnga þá eg ber, og þar með fleiru kjæta, það syndi gjædsku þína bert, og þú að enn ei hættur ert, grátbeiðni manna gjæta.

6. Eg vil því trúa' að allra best, elsk=an þín muni ráða; qvittist því synda sekt mín verst, af sætleik þinnar náð=ar, eig þú þá, Drottinn! ønd og líf, hvørt úthlutar mér sæld eða kíf; lof sé þér, Faðir ráða!

19. Sálm.

## 19. Sálmur.

Bæn um frelsi frá heiminum.

Lagid: Allt heimsins glisid.

Mikil er, Drottinn! myskun þín, mér sem þú hefur veitt, þar af er sprottin þecking mín, þú létst ei vanta neitt, er bæri vott um yfirsýn, þá æ mig hefur leidt, hugar á brottu hrakid pín, og hørmum øllum breytt.

2. Ætti' eg ad klaga ei fyrir þér, þó andstædt nockud sé, nád þín tók baga burt frá mér, breyskum lét uppgjef ské; allmarga daga sál mín sér, sæla látna í té; aldrei því draga eg má hér, þitt ágjætt lof í hlé.

3. Tekur ad flyttast æfin í, óróa þessum heim, mér bæri þitt ad mæta frí, mótlæting einni' eda tveim; sælgæti þitt bak sorga ský, sjer gégnum ángurs keim, trúarkorn mitt, eg tilbýst því, ad taka fognudi þeim.

4. Enn þó mér góda gjæfir þinn, Gud! opt í lífi mín, harmanna móda margt eitt sinn, mér á því hylur sýn; af því svo hljódar andi minn, opt, sæli Gud! til þín; fram réd nad bjóda Frelsarinn, frelsa mig því af pín.

5. Svaladu gédi sem eg bid, svo finni' eg bænar krapt, veittu mér gledi grát minn vid, svo géti traustid haft; ó! ad mig skédi frelsi og frid, fár allt svo væri tapt, og þitt mér lédist þar til lid, þú sem mig hefir skapt.

6. Medan embætti mitt eg ber, mér smídu vanda frá, svo reidilaus mætti reina hér, réttlæti og fridsemd á, stundandi' af mætti þóknast þér; þú mín andvorp ei smá; bæg þú, svo hætti, burt frá mér, böl mitt þeim vilja sjá.

7. Fyrst á hid lága lítur þú, líttu, minn Gud! á mig, tak þad hid bága burtu nú, svo bregdist ei á þig, sæl af þér fágud sjálfum trú, sönn, hrein og alvarlig; lát aldrei plága heimsins hjú, mitt hjarta lífs á stig.

8. Eg vil í þína heldur hönd, Herra minn! falla' enn manns, ef viltu mína mæda önd; minst vera þurfi hans, er dramb vill sýna,' og veraldar vönd; vel kanntu reka' í stans, hvörja sem pína lýd eda lönd, og leifa ei sannleik ans.

9. Ei vil eg bidja' um ángur neins, þótt ángra vildi mig, og hvörgi stydja manns til meins, minn Gud!

þó kalli' á þig; þú kannt vel ydja þad ad eins, hvílíkir betri sig; þú kannt og rydja þrautasteins, þíngan-um lífs af stig.

10. Drottinn! mig lángar leingi til, ad lofi þig mín önd, feril þann gánga frelstur vil, mig færir svo þín hönd, þann þó sé strángur himins til, hverfi' ad eins manna bönd, dramb-samra lángsamt dáraspil, dygdar og fridar grönd.

11. Leifdu mér, Drottinn! lof þér tjá, líttu míns hjarta bón, gjædskunn-ar vottinn gef mér sjá, grönd reki þad og tjón; takist mér óttinn allur frá, af þinnar nádar sjón, daudans þá nóttin eptirá, innleidir lífs á frón.

## 20. Sálmur.

Andvarpan sama efnis. Sama ár.

Lagid: A Gud alleina.

Gud Fadir gæda! Gud minn og Fad-ir kær, Herrann upphæda, himn-um og jördu nær, í maktar hendi, allt hefur stórt og smátt, enginn er endi, á þínum dýrdarmátt, öllu einn umvendir, á augabragdi þrátt.

2. Þú þúsund rádin, þar sjer sem

menn ei neitt, þjóðanna dáðin hjá þér er ríkið eitt, þér að fulltreista, því hlítur vera best, þó vilji vor freysta, vandræði og hættan mest, og sig í þér hreysta, yfir mun vinna flest.

3. Opt ønd mín grætur, ó Guð! þá kvaka' á þig, daga sem nætur, døpur á lífsins stig, vant þikir vera, þú veitir sér það líð, sem hét minn Herra, hvørjum þig þreytir við; þína þøgn að bera, er þíngra enn andstreymið.

4. Opt Guð mig gleður, géfur í hófi bót, bøls báru meður, og bætir sorgar hót; það mun best þéna, í þessum stríðsins heim, með løku léna, luckunnar nockurn keim; eitt með øðru réna, æ skal af hlutum tveim.

5. Svo vill mitt sinni, til sælla búa lífs, að leiðist lund minni, lángur hégómi kífs; enn Guð! mig lángar, eptir að þacka þér, glaður framgánga, og gjøra það sem ber, laus við allt þið ránga, ef líkn þá veittir mér.

6. Einkum þá æfi, sem eptir vera kann, óska' eg mér gæfir, það yndi heims í rann, að enginn maður, yfir mér feingi vald, síst íllviljaður, setti

í þrældóms hald, þinn þræll er glad-
ur, þitt fyrir lausnar gjald.

7. Drottinn! mig eigi, dramblátum
sét fyrir spé, á lífsins vegi, utan
fyrir þitt nafn sé, allt af þér líða, eg
vil, og fyrir þig, enn lát þú níða, eng-
ann sjálfbyrging mig, þann er verk
mín víða, vanvyrdi ósæadlig.

8. Lát mig þad reyna, þú lítir enn
til manns, og heyrir kveinan, kvørt-
unarfulla hans, sem daga og næt-
ur, dynur þér jafnan hjá, hann þeg-
ar grætur, hvad enginn annar sá,
Gud! gjædsku mætur! gæt þess og
hjálpa þá.

9. Á mér skal sannast, ord Jesú
Sonar þíns, hann mun vidkannast,
heit sín og Fødur síns, ángrada hrek-
ja, enga sál burt frá sér, né burtu
reka, þann nærir traust á þér, eng-
inn má því fleka, þann opt fram bæn-
ir ber.

10. Víst vil eg trúa, þú verdir heyra
mig, øll ord þín snúa, eitt, til ad vinna
þig; eg þótt ad øllu, óverdur sjálfur
sé, Guds trygd ei høllun, gjørist, né
kann ad ské, ad þá ydri køllun, af ást
er lét í tje.

21. Sálm.

## 21. Sálmur.

Prábeidni í Freistíngu. 1812.

Lagid: Lifandi Gud þú lít þar á.

Minn Fadir Gud á himna hæd! hvad lengi skal nú þegja? hvad lengi plága hörmúng skæd, hugann, og nidurbegja? hvad lengi bidja hjálpar þig, og heit ad fylla Guddómlig? hvad lengi hreldur þreya?

2. Þú veitir margar þarfir mér, þú veitir naudsyn lífi, verdleikur minn þar enginn er; afvendir líka kífi; gjörir þú líka, Gud minn! bad, gudlausum þeim þig aldrei bad; margsinnis honum hlífir.

3. En bænin, bænin gódi Gud! gégnum þrengir sér eigi, og minnar sálar sáru naud, sífeldt þú vidur þegir; hví villtu þanninn hrella mig, sem hefi jafnan treyst á þig, frá æsku fyrsta vegi?

4. Af hvörju skal eg ordin þín, eilífi Herra! sanna, ef allt nú bregdst fyrir augum mín, og enn þá fleiri manna, sem um bænheyrslu lofa létst, enn lángsterkast fyrir Jesúm hétst? brygdist þad bregdst allt annad.

5. Þú veitst ad eg bid opt af

rót, og óaflátanlega, þú veitst eg tortryggt hefi' ei hót, hjálp þína' á ýmsa vega; þú veitst eg bið um það sem er, þénanlegt eitt til dýrðar þér; þú veitst hvað tár mín vega.

6. Þú veitst eg vondur synja síst, þeim sárbiður mig í nauðum; þú veitst eg hjálpa vildi víst, voluðum þínum sauðum, aðhafast rétt og efla frið, og undirþryktum veita lið, ljós kveikja trúar trauðum.

7. Eg er, Drottinn! allur í synd, orð vil þó halda' er heiti; en þú gæðanna og lífsins lind! svo lengi aumann þreytir, áður enn bæn hann eina fær, eða sér sig að nokkru nær, þó að þín þannig leiti.

8. Hvað lengi freysta það skal þá, þeirra sem á þig trúa? hvað lengi þér í fjærlægð frá, frekum heimsvinum snúa? skal traust á þér, og bænin blíð, brennandi heit á hvörri tíð, örvænting undirbúa.

9. Hrópi nú á þig ár og dag, allt þángað til þú heyrir, öndin mín, og mitt orðalag, æfinlegt vitni veri, að eg hafi af öllum hug, óþreitanlega beðið þig, sem Jesús sagði að bæri.

10. Ómögulegt það verður víst, að

verdleik hans þú neitir; ómøgulegt þad eins mér lítst, ad þínum sannleik breytir; þú hlýtur, Gud! ad heyra mig, hér mun þá sál mín prísa þig, og medan eilífd heitir.

## 22. Sálmur.

Lofsálmur. Sama ár.

Lagid: Lofid Gud! lofid hann hvør sem kann.

O! mín ønd! eina stund lypt úpp þér, heimsins bønd, hindri þig ecki hér, Gud, minn Gud! þig heyrir þír, høpt leysir nauda, freystíngunni frá þér snír, frelsar af dauda; verdleik manns vill ei tilreikna, gædskan hans, greid til ad líkna, géfur ans, gjørir þig síkna; vill enn Fadir vera þinn :,: øll hans ord um eilífd sønn æ munu reynast :,:

2. Lætur mig lifandi Drottinn sá, reina sig, raunbestann Fødur þá, þegar sálin þreingist mín; þad skal nú játa; heidrar ord og heitin sín, hjálpar í máta; ecki hann ofbreyskum reidist, heldur ann hønum ad greidist, þrauta bann, þrá burtu leidist, heyrir jafnvel barna brek :,: gódur ertu ad géfa mér, Gud! elsku þína :,:

3. Síst eg má, segja né telja þad,

er náð þín þá, hefur mér úthlutað, fátt eitt nefna nú þó vil, nafn þitt svo prísi, og þó gjörí' ei orðin skil, á því, né lýsi, þacklát sál það skal útbrjóta, einninn mál opt því útfleita, hræsnistál hér skal ei nýta; gjørdir minnist æ þará :,: þess mín neyti orkan øll æ meðan varir :,:

4. Líf og ønd, líkama, velgjørt allt, gaf þín hønd, Guð! mér, og lán gjørvallt, skinsemd góða, skilníngs vit, skapnaðinn rétta, orku fulla, yfirlit, enn meir enn þetta; auðveldt géð, upplýsíng næga, fróma með foreldra þæga, efni léð uppheldisfræga; frama lærdóm, veg og vøld :,: heilsu, friðinn, hagsæld, gagn, heimkynni líka :,:

5. Allt hefi' eg, ó Drottinn! misbrúkað, á margann veg, miskunar lánið það, sem þér kunnugt sjálfum er; samt hefur fleira, veitt þín gæðska vonðum mér, verðugra' og meira: Soninn þinn, sál mína að bæta, frægstann minn, Frelsarann mæta, lærdóminn lausnar ágjæta; og þá hønum hlíddi' eg síst :,: Guð! ó Guð! þín gjæðskan rík, gjørdi mig vekja :,:

6. Ástkært ráð, afkvæmi gjørfuglegt, manna náð, margsinnis lánið

frekt, leiddir mig frá öllum æ, ó-
hoppum nauda, fylgdir yfir fold og
sæ, frelstir af dauda; óverdum allt
gafstu þetta, vanmáttkum, vanst hjálp
ad rétta, syndugum samvitsku létta;
margopt heyrdir mína bæn :,: og
nú loksins frelsad frá, freystíngum
hefur :,:

7. Med því ad mér ætlar þína
náð, hvad var það, þó þér hefdir
jafnan þjáð? en þú gledur einninn
hér, affstyrir grandi, hvorju fær nú
þackad þér, þetta minn Andi? veit
nú eitt, eilífi Herra! ljúft og leidt
láttu mig bera, gladann greidt, og
gagnstyrkvann vera, hvad sem villt eg
þoli þú, :,: lofa þig firir líf og hel,
luckn og mædu :,:

8. Lát mig nú lifa til dýrdar þér,
í ást og trú, eptir hvad lífsins er;
þá heims naudin þrítur skæd, og
þeir dagar kaldir, leif mér þig í lifs-
ins hæd, ad lofa um aldir; eg mun
þá ord betur vanda, frelstur hjá, flock
dýrdar anda, þar fæ sjá, þinna verk
handa; hefi eg von um það til þín,
:,: þarum géfur þrátt mér traust, þín,
Gud! trúfesti :,:

9. Himin, jörd, hvörs dyrs lifandi

sál, landagjørd, lýdir og túngumál, sérhvør heimur, allt hvad er, í þeim med lífi, gjarnan lofid gjaldi þér, Gud! þú eilífi! Engla her, andarnir mátt-ar, leiki þér, lofgjørd allshâttar, verdi hér, verur áſáttar, allar ſem ad eru til :,: lofi þig Gud! mín leyſta ønd, í lífi og dauda :,:

## 23. Sálmur.

Þacklæti. Sama ár.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd.

Fyrir fám døgum, dýr Drottinn! í hæd ſem býr, hræddiſt eg hyrtíng þína, hóf því andvørpun mína; hrós þitt nú, Herra! vari, himnar og jørd-in ſvari.

2. Eg hræddiſt um mitt barn, óþolin-mædisgjarn, einka Son um ad miſsa, þó ætti vønd þinn kyſsa hr. þ. n. H. v. h. o. j. ſ.

3. Ottadiſt eins um mig, ad kynni ſtyggja þig, og øllu ſleppa yndi, eymſtr-adur fyrr í lyndi, hr. þ. n. H. v. h. o. j. ſ.

4. Eg bad af øllum hug, þann opt mig heyrdi, þig, en þó med aud-mýkt vildi, ad þá ei módga ſkyldi, hr. þ. n. H. v. h. o. j. ſ.

5. Til eilífrar æru þín, orð skulu vitna mín, að bót mér æðstu gjörðir, og mig samstundis heyrðir, hr. þ. n. H. v. h. o. j. s.

6. Hvað er eg, að þú mig, ef í nauð kalla' á þig, ástríku Guðdóms eyra, óverðann strax villt heyra? hr. þ. n. H. v. h. o. j. s.

7. Héðan af æfi á, aldrei því gleima má, að mig svo fljótt létst finna, fullvissu heita þinna, hr. þ. n. H. v. h. o. j. s.

8. Eilíf sé Drottni dýrð, á degi hverjum skýrð, af mér og öllum mönnum, auðmýktar hótum sönnum; hrós eilíft Herrans v. h. o. j. s.

## 24. Sálmur.

Jóla Sálmur. Sama ár,

Lagið: In dulci jubilo.

Nú ljómar nær og fjær, náð Guðs og mildi skjær, upprunnin oss af hæðum, er fæddur Drottinn kjær, Jesús, með guðdóms gjæðum, gott með sér allt oss fær; himnar og jörð við hlær; hann skulum prísa vær.

2. Sá sem frá eilífð er, og allt

med krapti ber, af Føðurs ást og mildi, útgenginn kemur hér, náttúru vora vildi, vesæla tengja sér, sem barn hann sáum ver, sjón þeirri trúin lér.

3. Sig lítillætti hann, að leisa syndarann, opnaði himna hallir, heljar upprætti bann, þess njóta nú þeir allir, sem náð hans hræra kann, hvørr sá sem hønum ann, heill af hans komu fann.

4. Þannin að minnast manns, mikil var gjæðskan hans; færði oss tign frábæra, frægðar og sælu krans, það er vor eilíf æra, og unun himna ranns, er batt sinn æðsta glans, við edli mannlegs stands.

5. Án hans er ekki neitt, oss til hagnaðar veitt, í hønum allt hið góða, ofan til vor er leidt; frið lætur fagrann bjóða, Faðirinn øllum greidt; hann oss elskaði heitt, þá høfðu illa breytt.

6. O Jesú! elsku dýr, Guðs andlits ljómi skýr, æ hvað þú ert oss fagur, enn þó við fátækt býr, er nótt þín eins og dagur, øll burtu dimma flýr, Englanna hljómar hýr, hátignar saungur nýr.

7. Fagni nú børn Guðs blíð, bless-

adri nádartíd, Guds einka Sonur gódi, gaf sig ad frelsa lýd, kominn sem barn og bródir, ad bera mannlegt stríd; lofud sé frægd hans fríd, fyrir þad ár og síd.

## 23. Sálmur.

Lofsálmur. 1813.

Lagid: Losid Gud! Losid hann hvar sem kann.

Drottinn dýr! Drottinn sem stýrir heim, mildur, hýr, mjög ertu øllum heim, (er þad þó um eilífd satt) sem eptir þer leita, yndi gefur og ástand gladt, allt gjørir bæta; og þó bægd, einhvørja kenni, líkn og vægd, veitir í henni, Gud! þín frægd, grand svo ei spenni; lofi þig, Drottinn! æ mín ønd; :,: þín trúfestin eilíf er, eilíf þín mildi. :,:

2. Fullt er allt, af almætti og speki þín; eins óvallt í øllu þín gædska skín, því er víst hún eilíf er, endalaus líka, hlítur því ad hrína á mér, hvar sem eg reika; þolgéd mitt, (þess ønd mín nítur) þá verdur stytt, sér veiklan innskýtur, géfa kvitt, gædskan sú hlítur; er hún meiri enn øll mín synd, :,: Drottins eilíf elska og nád, allt yfirgnæfir. :,:

3. Snemma og seint (sanna þad vil eg nú) hefi eg reynt, Herrans þá miklu trú, hún mun þá ei hédanaf, heldur mér þrjóta, enn yfir dauðans djúpa kaf, draga mig hljóta, veit mér þú, verndarinn besti, að ást og trú, á þér eg festi, æ og nú, umflýi lesti; hédan af lát mig þóknast þér — :,: lofi þig, Guð! min leysta önd, í lífi og dauda. :,:

## 26. Sálmur.

Andvorp. 1814.

Ladið: Nú ljómar nær og fjær.

Enn kvakar öndin mín, ó Drottinn Guð! til þín, mitt sem fyrr böl-id mýktir, og margri sviptir pín, ljúfri hönd Födurs lýktir, línkynd er mér var brýn, ángri nú aptur týn, yndið mér hvarf af sýn.

2. Þó kunni' eg hafa hér, Herra minn! fyrir þér, misbrotið eitt og annað, eptir ad vægdir mér, trúi eg sýnt og sannað, að soddann allá skér; brýtur í sjálfri sér, síst náð sú eilíf er.

3. Og þótt eg, eins er þad, allt hafi vanbrúkad, af þér veitt ödrum fremur, allt er þad forlíkad, til dóms

ei, Drottinn! kémur, sá dýrstum grida-stad, sókti þíns Sonar ad, og sífeldt hjálpar bad.

4. Heyrdu þá hrópid mitt, hrell-íngu alla stytt; eg hefi þarad eyda, unnid vid nafnid þitt, af allri þig orku heidra, ef brot mér gefur kvitt, og lætur øndu fridt, ángrid svo batni sitt.

5. Þú kannt ei glata þá, þeim sem þig treystir á; ord kanntu ecki ad rjúfa, þinn eydur ei bregdast má, mætasta mýskun ljúfa, mér verdur því ad tjá; ófarir aums ad sjá, ei er þér gledi hjá.

6. Andvørp og øll mín tár, augu þín litu klár, hvad lengi skal eg, Herra! hrópa á þig síd og ár? hve-nær skal harmur þverra, og hugar neydin sár? seinn ertu hjálpar hár, hryggvar ad gledja brár.

7. Eg veit þú, Herra hýr! heyrir mig, nádar dýr, þó ad mér þyki vera, þørfinn svo brád órír, og hrigd-ar efni' ad bera, optar enn gledin skýr, hellst er sá harmur nýr, ad hróp mitt lint áknír.

8. Samt muntu þó um síd, á sann-hagkvæmri tíd, dyrum upp, Drott-

inn! ljúka; drag þad ei nú um hríd; ønd mína af ángri sjúka, allt vidurskildu stríd; eptir þér enn eg bíd; æ sé þér lofgjørd blíd.

## 27. Sálmur.

Andvørpun 1815, í þúngri freistingu.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur.

Láttu nú ecki lengur pína, lifandi Drottinn! øndu mína, þøgn vid andvørpum øllum hér, er eg, minn Gud! svo tídt framber.

2. Ef madur traustid á þér hefur, um engann mótgáng hótíd géfur, enn ef því sviptist aptur sá, allt hønum tapad heita má.

3. Ogudlegur sem aldrei treisti, á þig enn trúdi sjálfs síns hreisti, saknar ei þinnar hjálpar þót, hans er hún ecki sælu rót.

4. Enn sá sem þér í øllu trúdi, og vid brádeidni hjartad lúdi, treistandi Jesú ordin á, af øllum hug sem framast má.

5. Ef hønum finnast ei þau rætast, ønd hans má ei af neinu kjætast; ef bænheyrslan ei framgáng fær, flest þikir annad brygdum nær.

6. Ef ákall mitt af öllu sinni, óþolinmædi sálu minni, orsakad gjæti, og adra synd, öll er mín hyggja um Guds ord blind.

7. Hvad hryggilegra hugsad verdur, enn heidur nafns þíns meintist skérdur? því vantrúadir eru þará, allir ad kasta bæn sér frá.

8. Þeir segja hvörjum þad á degi, þig skuli madur bidja eigi, þú breytir engu eptir því, og eckért lagir heimi í.

9. Urrædaleysi af því verdi, allt fyrir manni þolgéd skérdi; hvör þig ákalli harla fast, hans muni vonin ónítast.

10. Enn Jesús er því mest á móti, meir enn víst segir hann ad njóti, bænheyrslu hvör sem bidur þig, bæn þegar hans er alvarlig.

11. Og þó þeir freisti hans ordum snúa, sem eru naudgir þeim ad trúa, láti sem hafi línun haft, lína þeir aldrei þeirra krapt.

12. Enn fyrst ad ord hans segja hid sanna, sýna hlítur þú börnum manna, ljósa bænheyrslu, og láta ei þann, leidast í freistni, sem þér ann.

13. Drag þú því lengur ecki und-

an, andvørpin minna lífsins stunda, ad heyra, Gud! svo þecki' eg þig, þecki ad villt álíta mig.

14. Sannleika vil eg þinn fá þeckja, og þeir sem hønum vilja hneckja, ætti ad fá hann eins ad sjá, uppvekja skal þad hvørn sem má.

15. Helga þú nafn þitt, Herra dýri! heimunum sem ad øllum stýrir, og ert þó nærri allstadar, ord mín þeckir og hugarfar.

16. Helga þú Jesú heit og sanna, helgadi hann þig á medal manna, þegar hann hlýddi þér í neyd, þúngann allt fram í krossins deyd.

17. Ei lát þá sem hans ordum neita, í øllu stollta vel sér fleyta, enn þá sem trúa ord hans á, af því vansemd í heimi fá.

18. Eg veit þú, Drottinn! ei munt taka, mitt óþollyndi mér til saka, áfram knýa þín ordin mig, af øllum hug ad kalla á þig.

19. Aknýr svo kraptinn andar minnar, eptirlaungun til dýrdar þinnar, og þína dýru dóma ad sjá, Drottinn! ad eckért aptra má.

20. Enn mitt brádlæti um ad bera, audmjúklega eg bid þig, Herra! veik-

leiki minn og vanmættid, vart þolir heldur lengri bid.

21. Mín skal ákallan eflaust vera, eilíft vitni, og þarum bera, ad ord þín sanníst alla tíd, og þú bænheyrir fyrr og síd.

22. Því ad eg veit ad þitt munn eyra, þessi gjørvøll mín ordin heyra; því skulu nærstu lýsa ljód, þú lífir enn og hjálpir þjód.

23. Mun eg þá betur meiga vanda, mína lofgjørd í glødum anda, enn á þessari orkar stund, ángrud þó vonarfull sé lund.

## 28. Sálmur.

### Lofgjørd. 1816.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud!

O Gud! eg kém fyrir augsýn þér, eg vil mín heitin gjalda, þótt ófullkomnan mesta mér, megi því laungum valda, ad fæ eg eckért sagt, eilífri nád og makt, frambært, því megn og mál, mannvit og gjørvøll sál, fær hana fram ei talda.

2. Ad sønnu létst þú enn ei mig, frá áreitíngum leystann, enn þá fær heilsan eiginlig, ecki mig vel vidreist-

ann, enn þá er ørdug tíd, enn þá margskonar stríd, enn kraptar orkan mín, øllsaman heldur dvín, heim fæ mér hvørgi treystann.

3. Hvílík er þá sú gjædsku gnótt, sem gledi mér uppvekur, hrellínga burtu hrindir nótt, heyrda bæn vitna tekur, syndugum sælu ann, sem opt þig styggja vann, samvitsku sára neyd, sefar, og þó um leid, sjálfs álit allt burtrekur?

4. Enn fæ eg, Drottinn! ekki þig, án hindrunar ad prísa, verøldin bagar mikid mig, mót vill og holdid rísa, enn sálar ánaud laung, á hefur legid straung, freystíng sú finnst ei gleimd, fár og verdskuldud eymd, er fært er ei ad lísa.

5. Eins meina' eg hagur enginn minn, umbreyttur kallast megi, þeckjanlega í þetta sinn; þó er nú skipt um vegi; þín eilíf elsku dád, eflaust veitir mér nád; adferd þín undarlig, óskiljanleg fyrir mig, hug minn til styrks nú hnegir.

6. Eilíf sannsøgli og ástin þín, eflaust í brád vill bæta, á mér liggjandi eymsla pín, og mitt hugskotid kjæta; hjálp þín upphafin er, hún

seinna byrtist mér, betur, þá líður á leið, loks allra best í deyð, að mér mun góðsøm gjæta.

7. O, hvorsu má eg aum mannkynd, ángrast, minn Faðir góði! þegar margfalda mína synd, minnist eg á í hljóði; miskunar megn þitt eitt, mig gat frá henni leiðt, gæðskan þín guddómlig, gat ein og náðað mig, ein hrundið mínum móði.

8. Einskonar friðar sælu safn, sem eg umbað þig fordum, gèfur mér fyrir þitt Guddóms nafn, Guð minn! að standi' í skorðum; þó allt ei veitir þú, bola mér byrjar nú; þó leggir þýngsli á, þegar þig finn mér hjá, lofa skal ljúfum orðum.

9. Heilagast nafn þitt hèlgar þú, og heitinn Jesú góða, sannleika þinn mér sýnir nú, svosem þín orðin hljóða, um eilífð ertú trúr, um eilífð verndarmúr; hvað yrði eg án þín? önd væri töpuð mín, nyti eg ei náðar sjóða.

10. Hvør fèck mig varðveitt vondu frá, á veginn sneri besta? hvør gaf mér það eg gyrntist á, gleymt var tilverknað versta? umbar hann vonda veg, sem vandist seint af eg? hlífði í

háska og synd, þá helgun sló í vind? trygð við mig trútt nam festa?

11. Hvör óverðskuldað hóf minn hag, hjálpaði opt að standa, þar aðrir hlutu endadag? úr øllum leiddi vanda? Guð! þú það gjørðir allt, greiddir mitt hlaupið vallt, færðir úr freistni út, frelstir af margri sút, gafst mér þinn eginn anda.

12. Fyrst þú, Drottinn! svo fórst með mig, forláttu mótgjørð alla, óþolgeð mitt og ýmislig afbrot um tíð gjørvalla; vægð fyrst þín vorkun gaf, varðveit mig héðanaf, frá heimi, holdi og þrá, svo hneixlist aldrei á, þó látir þungt tilfalla.

13. Lát mig af allri lofa sál, líkn guðdómlega þína, lofgjørðar þetta láttu mál, lífs Faðir! aldrei dvína; þú heilsu veitir von, veitir fyrir þinn Son, allt gott til enda lífs, og eyðir þrautum kífs, lætur mig luku ei tína.

14. Veraldar gjæði' ef veitir mér, varðveittu, Guð! mitt hjarta, svo aldrei hnegist það frá þér, og þínu ljósi bjarta, svo tapi andans íl, aldreigi þángað til, mig kallar, Herra! heim (heldur styrkist í þeim) á lífsins landi' að skarta.

15. Veit mér þá audmýkt, Herra dýr! sem hæfir, þér ad sýna, géf mér ad þeckja, gjædsku dýr! grunnlausa miskun þína, þecking og audmýkt þá, þú sífellt, efl mér hjá, svo aukist ást á þér, augnablik sérhvørt hér, dagarnir þartil dvína.

16. Hátt losid Drottinn hann er trúr, hátt losid Jesúm Kristum, hann og hans Andi hættum úr, hjálpar ad dýrdar vistum; hátt losi Gud hans hjørd, himnar og líka jørd, hvad eitt sem hefur mál, hátt losi Gud mín sál; hann hjálpar hugartvistum.

## 29. Sálmur.

J ytra og innra stridi. 1818.

Lagid: Lifandi Gud þú lít þar á.

Hvad leingi, Gud! skal hrópa á þig, hvørt er þín miskun þrotin? hvad leingi skal eg mæda mig? minn er nú stirkur brotinn; hvad lángt mun þartil ord þín endt, eg fæ ad sjá, og høli vendt? nær koma bænar notin?

2. Mín orka þornud er, og sál, ørmøgnud hardtnær tídum, ógudlegir mér auka tál, ordum þeir beita

strídum, stærilátir med sjálfum sér, síst þikjast þurfa neins af þér, lifa í blóma blídum.

3. Drambsamir líta ofanad, önd vilja hrella mína, undir þeir þrjótsku, eins er þad, ógudlegt hugskot sýna; umsátur má ad utan fá; orkan ad hrinda nockru frá, heilsa og hugur dvína.

4. Þó ad þú hafir hrest mitt géd, heldst vid ástand hid sama, samkynja naudir sídan med, sálunni ad nýu ama; fyrir mig samt er þögnin þín, þad sem lángmesta eykur pín, og freistíng á feril tama.

5. Vanmáttar finn eg vegna ad mér, verda leidindi ad strída, uppgéfnum líkur af því er, sem öllu hlítur kvída, en þad vorkynnir einginn nú, ei heldur géfur hvíld mér þú, þó bæn eg reyni blída.

6. Ósýn er von um endurbót, alla sem gyrnast nái, umlídin er svo æskan fljót, ellin med sínu þrái, aptur vill fara ódt í hönd, af þessu dignar líf og önd, þolleysid trúi eg þjái.

7. Enn eg treysti svo á þig fast, ad mundir létta mædum, mig líka

eptir mótikast, mætum farsæla gjæd-
um; í morgu gjørdir þetta þú, þó
eru stórar naudir nú, en hryggt í
hjartans ædum.

8. Ofbolgéd mitt og ønnur stór,
ófullkomnan mig pínir, allur minn
kraptur á burt fór, ei koma dómar
þínir, ei lætur þú mig enn þá sjá,
ár eptir ár, ad heyrdir á, þad kvein-
stafir kjærdu mínir.

9. Eins er og þér sé ønd mín
gleymd, eins er og heit þín farist,
þaraf er mín svo mikil eymd, meir
er enn leingi barist, hjá mér er enga
orku ad fá, eda møgulegleika ad sjá,
ad fái øllu varist.

10. Okvídin, sál mín! samt þú vert,
þó sýnist neydin skrúfa, hefur því
Gud mig hingad fært, hann vill mér
ei burtskúfa, sjáist ei útyfir ánaud
manns, enn er þó stærri trygdin
hans, máttur og líknin ljúfa.

11. Omøgulegt med øllu víst, er
honum heit ad brygda, sérlega þeg-
ar sjálfum lítst, sælu í krapti hrygda,
verkad gétur þeim vona' á hann;
vann med þeim hætti margann mann,
leida til lífsins bygda.

12. Víst mun eg dýrka Drottins

nafn, med dásemd þá mig leysir, segja það enginn sé honum jafn, sína þá dýrd uppreysir; lofa mun eg hann ádur enn dey, en sú vegsemdin dvínar ei, þá brotnar holdsins hreysi.

## 50. Sálmur.

Upphaf þackargjörðar í voninni. 1819.

Lagid: Nú bid eg Gud þú nádir mig.

Eg kalla Drottinn! opt þig á, er mér sýnist þú sneida hjá, en það er eckért efamál, álíta muntu mína sál; fyrrenn eg lít þitt frelsi vel, og furdanlegast gjædsku þel, burtu ei svipta muntu mér, mitt líf er teiknad allt hjá þér.

2. Mørg er ad sønnu syndin mín, samt er endalaus gjædskan þín, sannleiks trúfesti og sætleiks nægd, sífeldt meiri, og øll þín frægd; þú leysir nú mitt líf frá deyd, lætur mig ecki falla í neyd; þú geymir mig svo géti eg sagt: Guds mig frelsadi nád og makt.

3. Tekur ad heyra hróp mitt þú, hæfir mér því ad lýsa nú; afleysir kvelling øndu mín, ordin ei munu bregdast þín; þú hvørs alvitska, orka

og náð, er án takmarka, og sérhvör dáð, hvörsu fær sléð að orð þín öll, ei hljóti rætast hreint gjörvöll.

4. Jesús! sem þitt er eilíft orð, orð færði híngað þitt á jörð, bænheyrslu hét þeim biðja þig, að barni þínu gjörði mig; allt ertu að leggja undir hann, óvin hans neinn ei standast kann; hví skyldu ecki á mér þá, öll hans fyrirheit sannast fá?

5. Eg leita af hjarta öllu þín, ecki lát skeika sporin mín; ráð þitt eg skal og réttinn tjá, með rækt á meðan lifa má; sannleiks að gánga eg set mér veg; sjá til að ecki falli eg, þá vil eg svara þeim sem tjá, þú ei bænheyrir jörðu á.

6. Minnstu mín ásamt orði því, er létst mér kénna heimi í, á því svo hefði allt mitt traust; eg tók og eptir þinni raust; optlega gat eg grátbænt þig, Guð! þá þú lítillættir mig; það gjörðir vel sem annað allt; áður var hugarfar mitt vallt.

7. Veit eg að orð þitt allt er rétt, og hefi bara traustið sett; hlýtur þín miskun hugga mig, því hefi lyst að dýrka þig; hvenær munt þú hug-

svala mér? hugur minn talar opt med sér; hvad leingi bída' blít eg þín, Herra!? nú stittist lífs tíd mín.

8. Enn þinn sannleikur ætíd stár, eilíflega mun reinast klár, hann géfur vitsku og hreysti mér, hjálpar þú fyrst eg treysti þér, von þá lát ecki verda ad reyk, vernda heldur minn óstyrkleik; ár og síd hrópa eg þig á, um ord þín tala hvar sem má.

9. Lát mína sálu lifa þú; lángar mig eptir fyrr og nú, dýrdlega þína dóma sjá, dýrkendum hrína þínum á, einninn þeim sem þitt akta' ei ord, af svo tækist hneixlun á jörd, en til þín leiddir allann lýd, sem enn þá hefur nádar tíd.

10. Mørg var mín, Dróttinn! sorg og synd, sannleikans ádur dulin mind, trygd þín sem leiddi ljós mig í, káti mig hafa gott af því, svo ecki falli, en Andi þinn, inntaki hjartans bústad minn, gjædum fylli og gøfgan þín, Gud! en burt reki alla pín.

11. Veit mér ad enkis virdi eg manns, vegsaman eda forsmán hans;

veit ad eg ecki vilja þinn, vanrækja gjöri nockurt sinn; veit ad ei sorg mig vinni á, veraldar gledi, happ né þrá, veit ad mín trú sé viss á þig; veit ad eg finni þeyrdann mig.

12. Lof sé þér, Gud! fyrir allt þitt ord, aud, heilsu, lán og líf á jörd, endurvitkun frá illum sid, og allt hvad gjört mig hefur vid; þá mig bænheyrdann hefur þú, og hvérsur líf sem varir nú, um eilífd skal þér æra skird, af mér verda í þinni dýrd.

## 51. Sálmur.

Andvarpan. 1820.

Lagid: Hjartkæri Fadir! himnum á.

O Gud! hvad mjög er öndin mín, ángrud og nidurþryckt, enn í hædirnar upp til þín, opt hefir sér þó rickt; aptur nær misstl á þér sýn, af ógnarlegri hjartans pín, samdi þá sorga dykt.

2. Nú er hún harla naudum seld, nær til þess enginn sögn, ángist og þrautum öllum hrelld, af þinni laungu þögn, líkt sem hún vadi æstann eld, allt nær til heljar nidur felld, þol-gædis þrotin gögn.

3. Maklega sorgir eykur á, míns óhollyndis rødd; hvar ef Drottinn í dóm vill gá, mín dapra ønd er stødd? hvar, ef þig vill sér hrekja frá, hæli' eda skjól er þér ad fá, sál mín! af naudum sødd?

4. Pinna hørmúnga þíngsli og bót, þeckir ei andi neinn, sá nema slyggdi synd þín ljót, sanngjædsku-ríkur einn; þeim kramda reiri hefndar hót, hann mun ei láta storma í mót, hann er kjærleikur hreinn.

5. Já eckért annad enn til þín, eg flý, minn Gud! í neyd, ádur enn lídur lángt mér sýn, líkn þín og hjálp sé greid; ó Gud! minn Gud! fyrir gjædsku þín, grátinn Jesú og blódga pín, mig út frá meinum leid.

6. Hvad fjærri sém ad sýnist mér, sæl áheyrsla þér frá, møgulegt samt ei annad er, enn eflaust látir sjá, ad þinn sannleikur aldrei þver, ad þín trúfesti sjálfsøgd skér, hvørjum þig hrópar á.

7. Til þín eg hefi hrópad leynt, Herra! frá æskútíd; eflaust þitt fyrirbeitid hreint, hlítur rætast um síd. Verda mun láta mér ei meint, af

minni bæn, þó frekt sé greint, trú-føst þín trygdin blíd.

8. Hegnir þú aldrei barni úm brek, besti Fadir! med stygd, ecki heldur mín ótrú frek, eyda mun þinni trygd; þótt eg sé sképna synd-úm sek, samt til huggunar ord þín tek, bæn mín er á þeim byggd.

9. Þér se lof fyrir þøgn og svar, þad kémur allt til góds, er þinn máttur sem ádur var, þín elska lækn-íng móds; eg mun lofa til eilífd-ar, yfirtek þinnar miskunar, hásaung-um Eingla hljóds.

## 52. Sálmur.

### Vidurkénníng trúarinnar. 1821.

Lagid: Til þín heilagi Herra Gud.

Enn lætur Drottinn yfir mér, upp-renna gjædsku sína, huga minn styrkir hvad sem skér, og heilsu spar-ar mína; þó strid og vanda þreyti vid, þá sýnir hann mér allt jafnt lid; trygd mun hann aldrei tína.

2. Ur heljar neyd og hjartans pín, hann mína sál vidreisir, brádt fyrir-géfur brotin mín, og bøndin af mér leysir; lítur á mig af hátrón hann,

hefiøgum, og mér nádar ann, í mínu hrygdar hreysi.

3. Eins og hans mikli máttur dýr, og mikli vísdóms kraptur, á øllu sjest, og yfirbýr, øllum heim sem er skaptur, eins hans sannleikur, ást og náð, endalaust er, og sálardáð, ør-þreytta lífgar aptur.

4. Hans orð er sannleiks eilíft mál, á því skal traust mitt standa, opt þó að minni óvænt sál, álitist staddri' í vanda; veikleiki, synd og freisting, fár, þó færi að mér síð og ár, Guð lætur það ei granda.

5. Himnanna yfir himnum býr, hugsun lítur þó hvørja, skepnunnar allrar Drottinn dýr, dugir því alla verja; skipun hans máttar skóp gjør-vallt, skyldi þá líkn hans ei yfir allt, ná sem hann neyð lét berja?

6. Hann skapti neyð til hyrtíngar, hans að menn skyldu leita, svo tæki-færi fengi þar, sem flestum miskun veita, draga frá synd, og gleðja geð, getur það annars hvørugt skéð; þørf-in hlítur að breyta.

7. Hans endalausa miskun má, maður þó hér ei skilja; fyrst Son-inn gaf hann gefur þá, gjørvallt sem

kjósa vilja, þeir sem hans hyrda hjálpárráð, heilagt að níta, og gæðsku dáð, þá fýsast skírt að skilja.

8. Að kemur þar mín öndin fær, um eilífð slíkt að sanna, þó afbrot holdsins optast nær, það yndi vilji banna; (von sú er ei á veiku bygð) verður sterkari Drottins trygð; hann er hjálparinn manna.

## 55. Sálmur.

Andvörpun. Sama ár.

Lagið: Allt heimsins glisið.

Guð! eg þig beiði, gjæt að nú, góður, trúfastur, vís, í þinni reiði ei lát þú, yfir mig koma hrís, brotunum eyði best þín trú, bænheyrslu þá eg kís, önd mína leiði ást þín sú, er mestann vann þér prís.

2. Þinn einka sendir Son í heim, sú var alvara þér, að æðstann kéndir andarseim, öllum að nota sér, og böli vendir burt frá þeim, sem bitur syndin skér, svo þrauta endir allann keim; áður enn beiddum vér.

3. Þitt svarið heit að hrekja ei þann, Herra! sem nálgast þig, og sem þín leita af alhug vann, ei fer á bak við mig; önd minni neita ei

því kann, áſlin þín guddómlig, ſína ſem þreyta orku ann, á þér ad feſta ſig.

4. Trúfeſti þín er miklu meir, merk og á ſannleik bygd, enn ſkynji mín í líki af leir, lémagna ønd á-ſkigd; mikir ſvo þínu' ad mædan deyr, og møgnud ſérhvør ſtygd; ſíſt muntu tína þeim ſem þreyr, þeirri treyſt-andi trygd.

5. Mín gódverk engin eru til, eda forþénan nein, ſyndin var lengi, ſíſt þad dyl, ſem redi meſtu ein, þó gat eg fengid áſtar il, af þér á marga grein, því mun ógengid æſi-bil, enn vara trygd ſú hrein.

6. Þín trygd er ætíd allt mitt trauſt, og elſkan guddómlig, þún mun uppræta harmarauſt, heyra um ſídir mig; ó! ad eg gæti efalauſt, í øllu treyſt á þig, øllu ſvo mæti bygg-jan hrauſt, á hvørjum lífsins ſtig.

7. Torfærum meſtu á eg í, ecki því neita má, þrautum vid fleſtu fángi ſný, ſær varla gégn ad ſtá, enn Drottinn breſtur ecki í því, øfl-uga hjálp ad tjá, hann einn er beſt-ur, hans til flý, hann kann mitt gagn ad ſjá.

8. Vanorka mín og margfaldt stríd, mig getur því ei lægt, mannanna dvín og sókn um síd, seinna mér verdur hægt; lína mun pínu hvørja hríd, hjálprædi Drottins frægt, sjálfs vegna sín, hans blessun blíd, byrtist þá helst er hægt.

9. Þrenging hégóma frelsar frá, sá Fadir mína önd, lætur mig dóma sína sjá, og sorgar leysir bönd, hörmúnga dróma hrindir þá, helst þikja rádin vönd; dýrdin hans hljóma heilög á, um himna, sjó og lönd.

## 34. Sálmur.

Lofsaungur. Sama ár.

Lagid: Kjær Jesú Kriste!

Hmælanlegi, alda Drottinn dýr! enn synjar eigi, elskan guddóms hýr, mér um miskun blída, mína gledur lund, sviptir kvöl og kvída, og kaldri hrygdar stund; trygd og sannleik sýnir hér, sjálfur hanninn Drottinn mér, frelsi af banni frægur lér, fús fyrir Jesú und.

2. Overdur em eg, æ ad nádir mig, af því fram kém eg, í audmýkt fyrir þig, Gud! og enn þér inni, af öllu hjarta prís; lof þitt ecki linni,

líknar Herrann vís! nú má sjá þá sannleiks trygd, sem er frábær, Gud! þín dygd, heigum á er heitum byggd, og sæla sal mín kís.

3. Svo muntu sýna, sama hédan frá, um æfi mína, er svo lidid á; aldrei yfirgéfur, uppfrá þessu mig, fyrst mér hjálpad hefur, hértil lífs á stig; úr eymdum traudum allopt hreif, útaf daudum verkum þreif, allar naudir nær burtdreif, nádin guddómlig.

4. Hvad skal eg segja? hvørnin gét vidhlíst? eg vil mér flegja, ofaní duptid dýpst, eg vil mig audmíkja, af øllum kroptum þar, og þeim ormi líkja, aumastur sem var, leystur af ama hørdum hnút, Herrans stama kosgjørd út, gráta tama synd med sút, sem mig aumann skar.

5. Dýrd sé þér, Drottinn! dýrd fyrir Krist þinn Son; allt beri vottinn, ad af þér góds er von; eg má eflaust tréysta, einninn fast á þig, æ láttu þá hreysta, í øllu þetta mig, svo hédanaf aldrei efi hót (enn þó skaldrir) sál mín, fljót, raun á kaldri' ad ráda bót, rád þín, Gud! vid sig.

6. Ef mér nú veitir, upp frá þessu

þú, þúngt hvað sem þreytir, þolinmæði' og trú, og að sjá við syndum, svo er allt mér veitt, Guðs af gæðsku lindum; gétur ei vantað neitt. Hvørn dag prísa hédann frá, hvør sem rís í móti þrá, guddóms vísa gæðsku þá, géd eg bið um eitt.

7. O! að það sinni, eins og hefi nú, á æfi minni, allri hefði' í trú! og þó enn styrkvara, svo auka Drottins prís, efldist mín alvara, eins hans kyssa hrís! Guð minn besti! géf mér það, svo géti eg mest þér haldist að, með heiðran flesta í hvørjum stað, heiløg mál og vís.

8. Alsælu brunnur, anda sérhvørs þú! meðan minn munnur, má þig lofa' í trú, ei kann eg misfara, við allslags gæða kyn; hvað er til hollara, enn hafa þig svo að vin? Krists fyrir anda vel það vinnst, vilji' hann standa hjá mér innst, sorg hér grandar sinni minnst, sælan velst og hin.

9. Dýrd sé þér, Drottinn! dýrð þér, Frelsari minn! allt beri vottinn, um kærleika þinn; aldrei yfirgéfur, ást þín trúføst mig, seinast svo upphefur, sjá að fæ eg þig; all-

ann prís af orku þér, allt þad vísi til sem er, øll því lýsi, einsog skér, eilífd heil fyrir sig.

## 55. Sálmur.

Ýdrunar andvorpun. 1823.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur.

Minn Gud! minn Gud! sem miskun þína, mig lætur enn þá yfirskína, og útskúfar ei enn þá mér, opt þó eg hrasi fyrir þér.

2. Mjøg gjarnan vil eg mína bresti, medkénna þér, minn Fadir besti! því ad úrrædid eckért er, annad enn krjúpa ad fótum þér.

3. Hryggilegt er hvad opt mig skédur, áreita synd svo gódann Fødur, en þó þad mædi mig nú fast, mun ecki tjá ad ørvínglast.

4. Þín gjædska yfirgeingur syndir, þín gudleg trygd er allt mitt yndi, vid hana eina eg hugga mig, harmandi sál þó plági sig.

5. Eins og þín guddóms elskan mesta, ein gaf mér hnossid sitt hid besta, einka Son úti eymd og þrá, og mig ad leysa kvølum frá.

6. Muntu ei láta miskun ríka, mér koma ad engu, Drottinn! slíka,

hann sýndi allskyns ástarrøk, uppgéfa baud mér jafnan søk.

7. Ef eg því hlýddi hvørju sinni, hét hann mér einninn uppgjøf þinni; þótt ólíkt sé, eg af því veit, enn framar, miskun þín er heit.

8. Enn þó þín náð svo eilíf standi, ei að síður minn píniſt andi, og hræðist það sín illskan kunn, aptri sér sjálf að ná þeim brunn.

9. Nema náð fyrir náð þú veitir, og náðarlegast þanninn breytir; augnablik sérhvørt aptra mér, øllum syndum á móti þér.

10. Þvílíkrar guðdóms þarf eg trygðar, og þinnar hjálpar allrar dygðar, náðar anda til aðstoðar, og innstu hjartans hreinsunar.

11. Ef eg skal hjálpast alla daga, eflaust máttu mig sjálfur draga, til Sonar þíns, því hrøsun hál, hrífa mun annars mína sál.

12. Í móti þér og þínum Anda, þú góði Guð! eg ei skal standa; þar nú treyst hefi þinni náð, þá vona eg mitt bætir ráð.

13. Aldrei skal, Faðir! af því láta, á þig að kalla, kveina' og gráta, þar til mitt hrópið heyrir á; hjálpi sér

sjálfur hvør sem má.

14. Aldrei skal eg í audmýkt minni, afláta því ad treysta þinni, nád einni samann, og á þig, en ei skal viljann vanta mig.

15. Overdann mig ef eydir módi, alsættir vid þig, Drottinn gódi! eilífri lofgjørd opt eg hét, af øllum mætti' er sýndann gét.

16. Ef þú og nádar einn þvílíkann, svo ærid margra synda ríkann, sannlega heita svoddan má, sýnir þú ríkdóm gjædsku þá.

17. Æ væri skyldt eg øllum meira, um eilífd lof þitt léti heyra, ef minnstur verda mætti í krans, míns Jesú leystra og húsi hans.

18. Enn til hans nádar ætla' eg ad flýa, af ásetníngi synd ei drýgja; en, Gud! hreinsa þú aumann mig, allir herskarar losi þig!

## 56. Sálmur.

Andvarpan vid hrøsun. 1824.

Lagid: Eg vesæll madur ekkért finn.

Hvad skal eg mæla mannkynd aum? mínum til hálku sporum, eg velkist hér í veraldar straum, og veslum holdsins forum; mest þá eg hugdist

heidra hann, Herra mér vits og lausn-
ar ann, opt rak mig heimskan ó-
gjætnis, sem undan vedri fis, allt
nær í syndir íllgyrnis.

2. Snemmindis minni æfi á, and-
ans bendíngar veitti, Gud mér, en
honum géck eg frá, gárúngum
eptir breytti; holdid innrætti hneixli
og tál, héck þad svo fast vid mína
sál, ad eptir þad hann mig efldi á
ný, ei gat eg frá því komist, og fest
mig ást hans í.

3. Héraf kémur þó hjartans gyrnd,
hafi' eg til Guds alleina, hvad lítid
sem hún finnst mér firnd, eda freyst-
íng næ eg reina, útaf veginum geing
eg greidt, gét ei vidspirnst, ad kalla
neitt, í hugar midri hormúng þá,
og hennar strídu þrá, honum fæ stød-
vast ecki á.

4. Maklega óttast mér því ber,
mína upplýsíng næga, Guds upp-
vakníngar gódar hér, géd mýkt og
skinsemd þæga, fyrst opt hef hafnad
øllu því, útlegd eg muni rekast í, og
yfirgéfast ørvæntinn; eda þá dóm-
inn hinn: frástúfast verda í frá-
leitt sinn.

5. Mér ógnar þad er á þad lít, á

æfi kvøldaninni, þó hreinsan bætti nockru nýt, á nauda saurgun minni, eptir lángsamlegt vidburds vafl, vendir hún aptur nýtt med afl; þá vill hún límast þánkann vid, þúngann hjartans ófrid, vekur, og andar andstreymid.

6. Vanheilsan, álas, óvyrdíng, enginn er þraut hjá sliku, ímsum þó heimsins óvitríng, ei vyrdist þad ad líku, óg synda spilling sé ei par; sýnt mér margsinnis annad var; til Guds þó andvørp gjørdi' eg mørg, ad géfa mér þarvid bjørg, fordjørfun mín því eyddi ørg.

7. Skal eg enn meiga hrópa á hann, sem hardla opt eg styggdi? skal óska' ad á mig aumann mann, eilíft þrot veru skyggdi? æ þá bæn mína' eg aldrei fæ, augsýn Guds flýa hvørgi næ! hvad skal þá gjøra hrelld mín sál, vid hrygdar þvílíkt bál, bitrara' enn lýsi mannlegt mál?

8. Leift máské Drottinn hafi hár, hold og Satan þá píni, meira, sem hafa meiri klár, medøl þau vild hans brýni; þó svo væri mér gjørir ei gagn, ef géfst eg upp vid þeirra magn, þess meiri dómur þreingir

mér; æ! brautin sú mig skér; hvad ef sú nádin úti er!

9. Gud! þín trúfesti guddómlig, geisla mér fær af ljósi, á hana treyst eg hefi og þig, hún verdur þér ad hrósi; eg í sál minni og svo finn, ad enn þá ecki í fráleitt sinn, né örvænting mér útskúfar, og eymdir síseldar; eg vona' og þess til endíngar.

10. Jesú! eg þinni trygd féck treyst, tídt þá sig naud réd herda, af öllum sem hefur endurleyst, eg mætti minnstur verda, njótandi þess þad nægir mér, nægir ef ecki hreckst frá þér, hærri vænting eg hugsa ei á; Herra! til mín sjá, ádur enn hédann fer eg frá.

11. Taktu nú, Gud! mér freysting frá, svo framvegis þér hlýdi, og megi lof um eilífd tjá, ó heyr þad Fadir blídi! láttu mig fá ad líta minn, Lausnarann góda, Soninn þinn, svo æra þín og ædsta dýrd, eptir míns megnis rírd, verdi um eilífd alla skýrd.

Morg.

## Morgun Þánki kristinns manns.

Snúinn af Þýsku. Sama ár.

Lagid: Hvar veit hvad sjærri er æfi endi.

Minn andi! vakna upp af dvala, til yndislegrar skémtunar, Födurs andanna frægd um tala, framkallar morgun gullin hvar, verk hans ad yfirvega frid; vid þér hans horfir ásýnd blid.

2. Upprennur sól á austurfjøllum, allbjørt, og hvítum glansa slær, døggvudum nidur á dølum øllum; dampi þokunnar umgyrdt fær, lángt fráverandi fjøll og sjó, fagur sléttann, en stígur þó.

3. Smástígur uppí eydid betur, ad silfurskýum verdur þar; hálf uppvakinn sig hafid gétur, hráblautum dømpum úr sem var, fyrri náttúran føgur í, fagnandi glødum morgun hlý.

4. Vængjadra blendur vinda rósum, vidtekur hlýr, en hverfa þær, auganu, í midjum urtum ljósum, er hærsta blómi standa nær; fuglar toppum uppbyrtum á, einstakir sofa í yørum þá.

5. Þeir lypta sér um létta vegi,

loptsins blómfagrar hædir í, til þess ad géta tekid þegi, med tignarlegum saung á ný; heil kom nú sól þin himneska, Herrans uppspretta blessana!

6. Ljómandi Seraph lík framkémur, lífsherrans eptir bodi þú, jördinni gott ad gjöra fremur, geislum andlegum hellir nú, grasa og dýra yfir art, ávaxtar sumt enn lífgar margt.

7. Sjölitkad frá þér ljós útflýtur, lýsist af hreinum straumum þeim, uppsprettunnar sem aldrei þrítur, öll fegurd, til í þessum heim, mjúkvarmur hiti einninn er, og uppvakinn kraptur lífs frá þér.

8. Svo sem frá tróni sýnilegum, sá sem ad einn er öllu nær, frá þínum skína vyrdist vegum; vita jord af sér dimmleit fær, og af því blómgast ásjálig, enn allt hvad lifir gledur sig.

9. Hvert blómstur upp sitt höfud tegir, sem hér af verdur endurnært, offrar honum sem ódaudlegir, einir ad þenkja um géta lært, sætustu ylman sinni þá, sem því náttúran kunni ljá.

10. Kynferdi þúsund kvikindanna, kríng fløgra létt, og sjúga þrátt, døggina votu, og saungli sanna, (þó síst af viti), Herrans mátt; hversu kærlegum hróśar blíd, hásaungum fugla morgun tíd!

11. Fidrud brjóst þeirra gledin glædir, glaumsterkum hljómi' útstreymir frjáls; einstøku hljódi allteins rædir, annar jafngladur, hins þá háls, hljómsterks vølundarhúss um gaung, háfann samstemmu skérpir saung.

12. Hvørn lofa þeir, í þessu nædi? þig almáttugi! og annann síst; þeir géta fundid þvílík gædi; þó hefur þú þeim synjad víst, um þá sálar upplipting hér, ad med þaunkunum nái þér.

13. Lofa þú Drottinn, sál mín sæla! sem gaf upplypting slíka þér, ad leita hans, þú átt ad mæla, eilífann prís þeim hædstur er; af kjærleika, og ei fyrir sig, til Eingils gledi skapti þig.

14. Hér veitta krapta láttu lofa' hann, laungum brennandi fýndu þá; en høfud Eingil hér ad ofann, honum lát guddóms lofsaung tjá, þar

frá sér numinn heima hér, heyra má rædt hve stór hann er.

15. Dyrd sé þér, Fadir! fyrir nýa, fegurdar spils uppvakníng þá, sjónar minnar, er sérhvørn frían, sýnir mér dag, hvad gledja má; dýrd fyrir krapta úr daudans blund, dýrrar endurnæríngar stund.

16. Þvi sjer nú verk þín enn mitt auga, ávarp sætt vinar heyrnin fær, en hef svo líkams orku næga, ad hann sálunni þjónkan ljær, og hønum stjórnar aptur sú; endurnærdir svo krapta þú.

17. Gladur og hress nú gét þad vilda, gjørt og fullkomnad eitt og hvad, sem einninn er mín inndæl skylda, af því þú hefur bodid þad; eilífi Gud! þad er þín nád, altsamann feingi' eg vel þess gád!

18. Alla tilveru øndin skapta, einúngis til ad þóknast þér, orka' eg nitti' og alla krapta, augnamid þitt ad frama hér, svo lífi dagur léntur sá, lífsins bók þinni skyni á.

19. Helgar skulud skjót fleygu stundir, skyldu brúkunar fyrir mig, þér flýtid ydur eilífd undir, á ydar mjúkum straumi sig, ønd mín flytur,

og ódum nær, þeim effta degi kom-
ist fær.

20. Hve litlar tíma lifum radir, hve laungum fljóta burtu þeir, ónýttir bædi' og óbrúkadir, til enkis góds verks hafdir meir! eckért þeim fylgir ágjætt ráð, andanna Guds ei prísud nád.

21. Svo gengur inní eilífdina; æ mætti þeirra skjóta flug, áminna mig, þar ei á lína, augnablik fá, ad hvetja hug, mér fyrirløgd, hvad mest þó vil, mig þennar þæfann gjøra til.

22. Inntaki veru alla mína, umhúgsun sú ad sýslan hver, markverdug er, en lífsins lína, léni hyggindi jafnan mér; heiløg sé gledi' enn hvetji sig, hugur ad betra sjálfann mig.

23. Minn hún uppørfi mannkærleika, mýki gyrndanna sérhvørt kíf, frá saurgun hreinsi sálu veika, sem bindrar laungum gudlegt líf; þú sjer minn ; veg um æfi ár, Engla og manna, Fadir klár!

24. Á eydimørk, med afvegs stígum, og efasømum mørgum eins, geng eg umkríngdur ýmisligum, af

tælingum sem leita meins, hóta mér líka hér og hvar, hættum, sem öllu er nóg af þar.

25. Óhult fótmál eg ecki megna, án þinnar hjálpar stíga neitt, yfirgéf þú mig ei þessvegna, eilífi Guð minn! hönd þín leidt, framyfir alla freisting þá, fái mig sléttum vegi á.

26. Ó! Sonur Föðurs! er mig leystir, uppfræddir líka' og gafst mér ráð, sendu nú þann sem þá þú hreystir, þína fordum, þú hétst í náð, í þinn stad senda, þegar inn, þú værir genginn himininn.

27. Send mér þinn Anda sannleiks mæta, sem haldi mér frá villustig, agi þá vegar vil ei gæta, vekji og hvetji þreyttann mig; einninn heyrir mitt ákall nú, andi fridarins sjálfur þú!

28. Þá heimsku æsir medfædt mirkur, minntu mig á mig sjálfann mest, umbreyti þinnar ástar styrkur, ónitri reidi í miskun best, þá eg vanvyrdtur einninn er, ímynd kærleikans sýndu mér.

29. Skíni þad æ fyrir óvin mínum, eins lát mig sjálfann líka þá, klöckna' af vidkvæmum kærleik þín-

um; enn komi hjartad hitinn á, af böckvum anda drambsemdar, á düpt þad minntu sem eg var.

30. Ad eg var fyrst af engu gjørdur, ádur enn líf og kraptur jókst, og óverdastur er á jørdu, allra sem þú til nádar tókst — eins þá mig lockar hér og hvar, hafgýu saungur vellystar.

31. Láttu þá daudans Engla ódum, ad minni sálu hvísla hér, hversu lítil gladværd í gódu, géfist medan á jørd eg er, og ad uppspretta hennar hrein, hérmeginn grafar ei sé nein.

32. Gjafarinn hluta gódra! láttu, glampa mig eingann blinda par, óhrærdur sé fyrir øllum háttum, afvegaleidslu lockunar, komi hótanir heims í bland, heldur eg ecki skeiki grand.

33. Eins ad eg forsjáll vogi' á vegum, vera med spilltri kinslód hér; lifi sem anda ódaudlegum, eptir vild þinni réttri ber, umvafinn, sjálfs þíns ást og nád, Engla vardveittur þinna dád.

34. Af þínum himni eptirbedinn, óska hvers skyldi' eg framar þá?

hvad skyldi' eg óttast? hraustu gédi, hér bíd eg þess er koma má; allt sem þú hefur ályktad, þótt ósælt virdist, sæla er þad.

35. Fljótt eydimarkar ferdin lídur, fljótt annann tíma og heim kém í, hvar æ er hagur yndisblídur, ei skortir sólu á landi því; Drottins þar ljóma dýrdin skal, daga og stundir utan tal.

36. Andar fylltir af innstu gledi, ærnar sjá lída tídir hjá, án þess í sínu ad æskja gédi, ad aptur komi lidnar þá, því adrar koma ótaldar, svo aldrei tíminn skérdist par.

37. Augnablik sérhvørt sælu nýa, sendir þá fyrri var ei kénd, sérhvørt yndælis sólu hlýa, sælli þeirri sem burt er vend, sérhvørt er unun sæt og skær, sérhvert er ødru Gudi nær.

## 38. Sálmur.

Vidurkénning ofmikils umburdarlyndisleysis. 1826.

Lagid: Upp! upp mín Sál!

Frá því, Gud minn! eg þrællinn þinn, af þér var aptur leiddur, á sannleiks veg, sem afgéck eg, ordinn ad blessan sneyddur, fast um-

bót þét, fyrir þér grét; flest þó sært hefdi vína, hærst ber þér lof (aldrei um of) af mér, náð fyrir þína.

2. Sídann mitt heit, sem tign þín veit, synd hefi' eg marga framid, girndirnar tídt, geysandi strídt, ad gagni ecki tamid, kallad af þér, enn þrýst ei mér, þolgéd og audmýkt sýna, hærst ber þér l. (a. u. o.), a. m. u. f. þ.

3. Já, þó frá þeim, eg þennann heim þeckti fyrst, hefdi degi, hørmúng og bøl, og harda kvøl, hlotid á lífsins vegi, sambodid var, synd eigi par, sál gat þó frelsad mína, h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

4. Dárlegt þad er, af holdi þér, ad heimta margskyns gædi, þá sárkvalinn, var Sonur þinn, saklaus og ædstur bædi; eins lét hann mest, þeim unnti best, øllum hørmúngar sýna, h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

5. Hvad mun eg þá, miøg bótarsmá, manneskja þenkja eiga? mun opnast mér, sem all-létt ber, inngángur sælu meiga? stórsekur tídt, stodugur lítt, stend eg vid reynslu mína, h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

6. Hold bresta sjúkt, hyrtir þú mjúkt, hvad skal eg þar um segja? muntu mér tjá, miskunsemd þá, megni' eg svo smátt af þreya! ertu þá hér svo mildur mér, meir vægd enn ødrum sýna! h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

7. Sú er mín trú, svo múnir þú, sannlega vid mig breyta; hvorsu þá ber, hédanaf mér, holdsbrekum fast afneita? sú gædskan best, sannlega er mest, sekustum á nam skína, h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

8. Umlidna hér, eg þacka þér, alla typtun í mildi; æ! fengi sú, eflt mína trú, umbreytt mér rétt sem skyldi, svo ønd mín fylld, af þinni vild, aldrei þér kynni týna; h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

9.. Øll sé þér dýrd, um eilífd skírd, af mér þarfyrir bædi, ad typtar hægt, og sýnir nægt, ómældrar þolinmædi; þín varir nad, þín frelsar dád, frá þrautum sálu mína, h. b. þ. l. (a. u. o.), a. m. n. f. þ.

10. Láttu nú mig, fá losad þig, lífs medan til er kraptur, med ord og verk, ad í þér sterk, øndin mín gjørist aptur, audmjúk og blíd, vid

audnu og stríd, efli fullkomnun sína;
øll sé þér dýrd, af øllu skírd, alla
náð fyrir þína.

## 59. Sálmur.

Andvorpun vid eptirleisar syndarinnar,
framkomnar í einni hrøsun. Sama ár.

Lagid: Snú þú nú aptur enn til hvíldar.

Enn hef eg brotid eittsinn móti ædst-
um þér, Gud! sem opt syndir
miskun mér.

2. Hvad lengi skal sú holdsins
vondska' og heimska stríd, fylgja mér
lífs um lánga tíd?

3. Mun hún þá ætíd yfirráda øll-
um dug, og gódum sem Drottinn gaf
mér hug?

4. Heims þegar stríd mig hrellir,
er ei hørmúng smá, ad sækir helst
mig syndin á.

5. Módga svo þann hinn milda
Gud sem minni ønd, er einka traust
vid efnin vønd.

6. Hvar er þá bótin? hverr kann
þá ad hjálpa mér? sýnilega hún
engin er.

7. Þó frá tilveru frekt ad kom-
ast fýsti mig, lífinu má ei svipta sig.

8. Allstadar nær mér Herrans

hønd ef hegna vill, þá verdur goldin athøfn ill.

9. Undankærid er eckért nema undir hann, fleygja sér fyrir fáràdann.

10. Þótt ásetníngur ecki sé til ills hjá mér, litlu munar hvad argur er.

11. Hvad leingi skal sú ljóta tælíng lífid hjá? taktu nú, Gud! mér freistíng frá.

12. Minn innri madur ætíd vonar uppá þig, ad þín trúfesti frelsi mig.

13. Sjøtíusinnum sjøtugustu synd mér nú, af þinni miskun uppgéf þú.

14. Og mig vardveittu alla tíd sem eptir er, frá allri misgjørd móti þér.

15. Mér leyfdu frelstra mínnstum allra ad mikla þig, og þína guddóms ást vid mig.

## 40. Sálmur.

Lofgjørd. Sama ár.

Lagid: Sælir eru þeir allir nú.

Lof sé þér, Gud! ad lífi' eg enn, og lofa sæ sem adrir menn, trygd þína og mestu mildi, óverdur þess med øllu var, ad enn til þinnar há-

tignar, athvarf eg eiga skyldi; ad koma nockrum ordum vid, til ákalls vid þig, Drottinn Gud! edur þér lof ad ljóda, forbrotid hafdi misgjørd mín, margføld, enn guddóms nádin þín, elsku mér enn vill bjóda.

2. Lofi því ber mér lýsa nú, lætur ei hrøsun mína þú, allt milli ockar skilja, því ádur gafst mér anda þinn, óverdugum, svo fullkominn, ad gat betur gjætt þíns vilja, óþol, sídleysi og holdsins hátt, hafdir mér fyrirgéfid þrátt, og leyst úr ýmsum vanda, en endurgoldid aumum mér, allt þad sem gjørdi' eg mótt þér, med þínum ástar anda.

3. Lof sé þér — enn þó lofi' eg þig, og leysi nád þín guddómlig, pris þinn ad enn eg inni, lángt er sídann þad leysdir mér; lángt er sídann eg gaf mig þér; uppfyllti ást þín sinni. Ei finn eg nú til annars slíks, andakraptar svo nádarríks, sem opt mér ádur veittir; hrøsun opt sídann hendi ad bar; hvenær mun veitast eins og var, ást sú mig aumann skreyttir?

4. Lof sé minn dýri Drottinn þér! dýrd og heidur þér einum ber, en

blygdan mér hin mesta, af því að=
skildi ockur synd, ofmjög náð þinni
sló eg í vind, nam ecki nóg hugfesta;
ei gét eg bætt um brot mín þó,
bæti þau sá sem fyrir mig dó, sjálf=
um þér sameinadur; hans pína ein
þar er til gyld, útgéfinn var ad
þinni vild, mig leysti, Gud og madur.

5. Lof sé þér Gud! þú lætur mig, lif=
andi Fadir! meiga' á þig, og Son þinn
svo mig reida, ad þó sé eg ótrúr,
þú sért trúr, og þraut med ólík=
indum úr, af gjæðsku kunnir greida;
á miskunar þinnar mæni' eg dyr,
mér ecki treysti betur enn fyrr, önnur
er von mín eingin, einkum þar
sídur er nú fær, enn ádur tídt, ad
koma hér nær, alstyrkur andi' ei
feinginn.

6. Lof sé þér Gud! og heidur hár;
hugur minn ætti ad vera klár, elsk=
andi af öllum mætti, því meir sem
uppgafst optar mér; enn, æ! á þessu
brestur er, unntu mér þitt alsætti!
máské veikari mér sé trú, miklu
hollari' ad þecki nú, því leingur
misgjörd mína; já, þar eg finn þann
frid og ró, mér fyrirgéfid hafir þó,
náð læt mér nægja þína.

7. Lof sé þér Gud! fyrir linkynd þá, ad létt mér hefur vanda frá, óverdum lifa svo lengi; háskalaust ütaf hverri neyd, hefur mig leidt þín mildin greid, sæmilegt géfid gengi. Þó allt mig hefdi áſókt bøl, (eg vann svo til ad lída kvøl) þér bar mér sífeldt þacka; allt væri gjædska einskær þín, allt væri betra enn verkin mín, hvad hér eg hlyti smacka.

8. Lof sé þér æ fyrir elsku þá, óverdum mér sem gjørdir tjá, um æfi alla mína; óverdum gafst þinn einka Son, ord hans blessad, og hjálpar von, og létst mig ei því týna; óverdum gafst mér idran þá, eg mátti heita fallinn frá, og opt mig endurreistir, óverdum heldst vid ønd og líf, og ecki sviptir þinni hlíf, þá sjálfum syndum treysti.

9. Lof sé þér fyrir luckuráð, lof sé þér fyrir náð á náð, og fyrir allt hid góda; lof fyrir ætt og afspríng minn, óverdum gaf hann máttur þinn; nú vil eg lof þér ljóda; en ord eg fæ þar eingin til, eins og er skildt og sem eg vil, viljinn er sjálfur veikur, og einganuveginn eins og skal;

ordanna hvad þá verdur tal? rétt eins og máttlaus reykur.

10. Lofgjörd þér, Drottinn! leyfdu mér, þó lítil verdi í heimi hér, í verki sífeldt sýna; leyf þú mér, Jesú, lausnin mín! ad lofa þig fyrir þína pín, og því aldregi týna; láttu ei öll þín ædstu verk, sem ástin þín mér veitti sterk, á mér ad engu verda, sýndu mér þá nú, Drottinn! dád, ad drýgja med mér þína nád, síst láttu synd þad skérda.

11. Lof sé þér, Fadir! fyrir þinn Son, frelsi og alla nádar von, og öll þín verk í einu; lof sé þér, Jesú! leidst fyrir mig, og lífid gafst mér fyrir þig; efl mig í ástsemd hreinu; lof sé þér, Andinn gjædskugjarn, gud-dómlegur! ad mig þitt barn, úr vondum gjöra vildir. Herranum prís og heidur sé,, hvörein þad láti sképna í té, mátt fyrir hans og mildi.

## 41. Sálmur.

Um bænheyrsluna. Akollun. 1827

Lagid: Stridsmenn þá hösdu krossfest Krist.

Minn Gud! minn Gud! eg mörg ord heit, mjög frambar fyrir þig; alvitska þín af þessu veit, þau eru

ei gleymanlig; þó önd mín sé þess ecki neyt, að þú bænheyrir mig, að komir samt með krapti' í leit, kref- ur þín gæðska þig.

2. Dýrðina géfðu, Drottinn! þér, og dýru nafni því, sem alla gafstu hátign hér, og hverri veröld í; sá mikli Herra hét því mér, hvarfyrir á svo kný, ef eg af alhug bæn fram- ber, bót mundi géfast ný.

3. Dómari guðlaus heyrði heitt, hróp eckjunnar (hann tér), hvert mun þá Guð ei hjálpa neitt, þeim hann ákalla hér? sannlega yður segi' eg eitt, sem óbrigðanlegt er, fljótt mun hann tjá þeim frelsi greidt; fram eg hans orð nú ber.

4. Hvað veldur því þú heyrir þá, hrópið mitt ecki enn, fyrst hefi' eg nauðað frekt þér á, færri svo gjörðu menn? vangá mín ei né vondska má; veikja þín heitin þrenn; því bað eg líka um frelsun frá; fól þér svo allt í senn.

5. Mig bað eg gjörðir þeckann þér, þrálega bæði og heitt, og þeim sem nærstann meinti' mér, að misk- un létir veitt, mannlega þrælkun hlut- um, hér, af heims, eg afbað eitt;

frelsi, braud daglegt, fridur er, þad fleira hefi' umbeidt.

6. Helgun þíns nafns, þín ríkis rád, ræki vilja þíns á jörd, til gagns ad lifa, gód ein dád, geta haft á mér vörd, uppgjöf synda, þín ást og nád, afstýrist freistni hörd, og allt sé þad hid illa afmád; um slíkt er bæn mín gjörd.

7. Hvad veldur þá ad Herrans mál, hér sjest ei rætast nú? er á þeim sannleik ordid brjál, sem auglýst hefur þú? lát ecki mædast mína sál, svo missi á þér trú; veraldar ordin hrek þú hál, hædir bænina sú.

8. Hversu sem horfist óvænt á, ord Jesú munu traust, af þeim eg huggun æ skal fá, æ sannast skal hans raust; Flýt þér nú, Drottinn! frelsi' ad tjá, svo fólk þitt verdi braust, og önd mín lofi þig svo þá, þadanaf endalaust.

## 42. Sálmur.

Lofsaungur. Sama ár.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

Hædsti prís, aleinn vís, æ sé, Gud! þér, einn voldugur, almáttugur ert þú; þín fær hönd, hvörri önd,

og huga mark sett, allsvanann efla mann, er þér mjög létt.

2. Leiddir mig, lífs á stig, léntir sál mér; það stórmerki, minn Guð sterki! ei munt smá; víst er að, viltu það, verdi mér sæld, en þér dýrd, eilíf skírd, aldrei fullmæld.

3. Frelsis von, fyrir þinn Son, fyrri bjóst mér; það stórmerki, minn Guð sterki! mest var; midt í hans, kirkju krans, kom eg heim í, víst er það, viltu að, verdi' eg sæll því.

4. Góðann dag, gladann hag, gafstu mér brádt, skírn þar inni, mál og minni, margt gott; upplýsíng, allt um kríng, allt hvað þorf hét, þín forsjá fræg mér þá, falla' í hag lét.

5. Ord þitt mætt, alls ágjætt árla gafst mér; það stórmerki minn Guð sterki! mjög dýrt, til frelsis mér, ætlað er, og til lífs míns í fognuð,' en þú Guð! eilífs príss þíns.

6. Fognud hér, féckstu mér, frid og vidreisn, ondu hrærdir, aptur nærdir af náð, víst er það, viltu að, verdi hjálp mín, andargagn, yndismagn, en eilíf dýrd þín.

7. Verki því, veittir í, vítalaust

geck, hér sem valdir, hønd á faldir helst mér; stódst vid blid, lagdir lid, létst svo hvíld fá; ædst í trú, á hér nú, ønd mín lof tjá.

8. Heptir naud, hollt gafst braud, hóflegt fjármagn, heilsu far þad helst gat varúd hug kénnt, svo þín flest, blessun best, bætti mitt rád, gaf mér allt, gott ávallt, Gud! þín stór nád.

9. Gædskulind, Gud! fyrir synd, gaf þín eins mér, ástkjært rád, sem elsku' og dád, lét opt sýnt, afspríng lént, óforþént, og mér gatst þú, eins þar vid atgjørfid, er mín von sú.

10. Audmýkt þér, eins og ber, ecki sýnt fæ, þín stórmerki, minn Gud sterki! minnst greint; enda kífs, eilífs lífs, afla þau mér, øll þín hjørd, himnar, jørd, hljómi lof þér.

## 45. Sálmur.

Bæn og þøck. 1828.

Lagid: Gjædskuríkastí grædart minn.

Herra! sem lifir hærri enn allt, Herrá sem ríkir einn ávalt, himnanna himnum yfir, eg hefi syndgad æ mót þér, en þín miskunsemd hlífdi mér, af því nú ønd mín lifir, traust dád,

trygg náð, lét mér eigi lífs á vegi lesti glata, hjálpaði opt frá íllu rata.

2. Heldur fæ talið sand enn synd, sem eg opt framdi skèpna blind, mót þínum blíðu boðum; hvað er eg þess þú hlífðir mér, hjálpaðir, veittir ljós frá þér, í hyrtíngum hétst mér stoðum? að þú, eins nú, lætur alla létt mér falla lífsins hagi, af ást þó bendir í øðru lagi?

3. Maklega hræðast mætti' eg flest, mína saurgun af hvorju mest, og spillíng allra handa, og að svo sekur ecki samt, undi, minn Drottinn! við þinn skamt, óþolugur í anda; ei beið, ei leið, eins og skyldi, og þín vildi, elskan mesta, er mér þó veitti allt hið besta.

4. Maklega hræðast mætti' eg víst, með mínum Herra' að leið eg síst, hans dýrð svo kynni kanna, að geymd sé mér hin grimma hefnd, guddómleg verði hótun efnd, á mér til íllra manna; frið eitt, fær veitt, saklaus neyð að sá einn leið, er sekann náðar, vilji sá þeckja dýrð hans dáðar.

5. Sannleik þinn, Drottinn! sýnir þú, samt að bænheyrir aumann

nú, óverdann alls er nýtur, í öllu sem nú er á von; eflaust bad skédur fyrir hinn Son, til góds því bad gjörvallt lítur; Gud minn! Gud minn! mikil er sú miskun hér, ad mig vilt heyra; víst má eg af þér vænta fleira.

6. Hértil veittist mér hjálp þín öll, úr hættu leiddir á-sléttann völl, en ofurgafst mig eigi, í ógudleik né örvæntíng, ummúradir med vernd í kríng, mig laungum líss á vegi; von þá, þér á, hefi' ad leidir heims um skeid, til heilla sídar, er þú veitst mér á öllu ríða.

7. Ef ad þín blessud ást eilíf, sem eilíft gyrnist veita líf, öllum sem ei mótstanda, ann mér syndára einhvörn reit, allra minnstann í leystra sveit, sá medal frelstu anda; hér skírd, skal dýrd, mesti Drottinn! mildi vott þinn, mig lát vera, þöck ad eilífu þér fram=bera.

8. Ljúfi Jesú! sem leystir mig, lát mig þess njóta, og prísa þig, um alla eilífd lánga, hald fram gædsku sem helst er fræg, hennar svo bless=ud gnæjíng næg, allt sjáist yfir gánga; lát mig, þá þig, aptur prísa,

um eilífð lýsa, af øllum mætti, mitt hverju ráð þín mildi bætti.

9. Dýrð sé þér, Faðir! dýrð sé þér; dýrð sé þér, Jesú! æ af mér; dýrð sé þér, Drottins Andi! dýrki þig, Guð! þín dýrkeypt hjørð, dýrki þig allir himnar, jørð, og allt þarí lifandi; dýrð sú, sé nú, og skal blífa øld eilífa, er aldrei slítur; eilífð viðtaki' er aðra þrítur!

## 44. Sálmur.

Lofsálmur. 1829.

Lagið: Guðs vors nú gæðsku prísum.

Enn þer mér lof þitt ljóða, lífið fyrst géfur mér, Guð allsveitandi góða! gjøra skal einum þér, þackir, og þinni náð, hún er uppsprettan eina, til allra bótar meina, øll sæla, sigur og dáð.

2. Þó mig hóflega þjáðir, það eg nú lofa vil, mig draga með því náðir, miskunar þinnar til, lengdir þó lífs míns þráð, af þolínmæði þinni, svo það mig búa kynni, undir eilífa náð.

3. Margt var hjá mér að bæta, miskunin þín það sá, og vildir íllt uppræta, mér ofmjøg viðfast hjá;

allt gjørdir við mig vel; því skal þér eilíf æra, einsog þér megna' að færa, lifandi' og laus við hel.

4. Þú hefur frelst mig, Faðir! freystíngum morgum í, eilíf þín orð sannaðir, ei þnekkti syndin því; trúfesti' er þvílík þín; þig fyrir það skal prísa, og þeirri gæðsku lýsa, um eilífð øndin mín.

5. Framyfir allt það eina, sem øllu fyrir var, að sendir mér Son þinn hreina, til synda borgunar, og létst mig þekkja þann, um eilífðir eg ætti, af øllum prísa mætti; er það góðs uppsprettan.

6. Létst mínum lífs ástæðum, ljúfasti Guð! þar hjá, hagað svo hans ástgæðum, hæglega þekkína á, fulla eg fengi best; sérlega þakka eg þetta; þín náð mig við að rétta, á mér ei ónít sjest.

7. Þanninn frá afveg íllum, útleiddann frelstir mig, og allskyns varðir villum, svo vona mætti' á þig; þér sé dýrð fyrir það; því eg þakklátur segi: þitt verk enn mitt var eigi, allt sem þar beindist að.

8. Það lof sem þér helst bæri, og þyggja vilt af náð, miður enn verð-

ugt væri, ad víſu fæ þér tjáð, ad leida til þín lýd, og mig þar út vid géfa, ýmſa vidleitni hafa, á minni efſtu tíd.

9. Vanmáttur veldur fleſtur, og verdleiks ſkortur minn, hverskonar holdsins breſtur, heims ſinnis mótþróinn, ad berſt eg þar fyrir bord; hlítur þú og án efa, upphof og voxt ad géfa, ef þitt ſkal verka ord.

10. Vil eg þó feginn víſa, vantrúudum til þín, med því ad láta lýſa, lofstír þeim øndin mín, gjarnan vill greida þér, og hvad mér audſýnt hefir, eptir ſem nád þín géfur, ad géta orkad mér.

11. Þér ſjálfbyrgíngar! ſjáid, ſálunni bjargid þid; Guds orda betur gáid; Guds nád ſyndara vid, hættid ad hæda nú; kom Jeſús þa ad kalla, kallada frelſar alla, ſem á hann ſetja trú.

12. Þeir ſkulu' hann þrávalt príſa, þó þér verdid þar frá; eg vil hans loſi lýſa, líkn því hann vill mér tjá, uppgéfur alla ſynd; føgnud ſem fæ eg ſmacka, framt mun eg honum þacka; hann er mér lífsins lind.

13. Himin, jord, haf og geimar,

hvers dýrs lifandi sál, efri og undirheimar, Engla og manna mál, vegsami Drottins dýrd; eg vil þeim öllum skara, Amen af hjarta svara; skal hún um eilífd skírd.

## 45. Sálmur.

Þackläti fyrir Guds ríkis útbreidslu. 1832.

Lagid: Jesús Guds Son eingétinn.

Lífsins og ljósa Fadir! líknin þín er svo há, mann sælann fyrst myndadir; mynd þinni fallinn frá, ódedinn endurleysa, aptur ad nýu reisa, vildir, og vegsemd tjá.

2. Hver var þess, Herra! vonin, svo heitt ad unntir oss? óvinum sendir Soninn, sem dáinn er á kross; enginn gat frelsad annar, sem ord þitt fullvel sannar, himneskt hann veitti hnoss.

3. Enn mannkyns íllskan mesta, örfud af Satans mekt, Herrans hjálprædi besta, hafnadi nærsta frekt; nockrir ei þóttust þurfa, þess vid, né kéndu arfa, spillíngar sinnar sekt.

4. Adrir ofsóktu og smádu, Guds einka Frelsarann, votta þá hæddu' og hrjádu, heims þjódum sendi hann; margir sem ord medtóku, mest þó í

glæpum jóku, uppherdtann innra mann.

5. Otal munnkristnir urdu, andvaralausir mest, um Guds ord aldrei spurdu, annad þó ræktu flest, gyrndunum tauminn gáfu, galausir í þeim sváfu, vanhyrdtu bodin best.

6. Eins fjøldinn allur manna, ei skeytti Gudi hót, leitadi síst hins sanna, né sálar neitt ad bót, batt þá svo banvænn drómi, í blindum heidindómi, og lasta breytni ljót.

7. Allt á dag þennann eru, eins menn í heimi hér, vanartugir í veru, vísa Guds nád frá sér; en kristnir einna flestir, ad sínu leiti verstir, er nordurálfan ber.

8. Upphófu ei fyrir laungu, allmargir þeirra nú, Guds ord ad gjora ad raungu, gégnstrída bæn og trú, forþénan manns ad fegra; fannst eckért þá líklegra, enn sigradi villa sú.

9. Gud! þú sem gjørvalt skaptir, gafst enn þá heimi nád, ord þitt med øflgum krapti, útjókst um log og lád; þagna þeir allir urdu, er ádur svo gégndi furdu, fóru med frekju' og hád.

10. Enn búar álfu nyrdri, ávøgst

þá færa lítt, sálnanna sonnum byrdi, safnar þú, Gud! nú vídt, hjordu sem honum hlídi, af heidnúm ýmsum lýdi, leidir og ladar blídt.

11. Sudur hafs eya sædi, og sudúr álfu þjód, gefur þau nádar gjædi, ad gánga lífs á slód, austur og vestur álfu, eins lætur boda sjálfur, kvittun fyrir Kristi blód.

12. Gydíngum gefur færi ad gyrnast Frelsarans, og svo enn framar læri, allir ad þeckja hann, ord þitt ó túngum ollum, útberst í heim gjorvollum, og býdst þeim af alúd ann.

13. Drottinn vor Jesús dýri! dásemdar kóngur hár, med anda og eldi skýrir, allmargann þessi ár; af gædsku á Guds veg leidir, Guds ríki vídt útbreidir, bæn þín og blessun klár.

14. Undirbýr eflaust sídar, allsherjar ríki þitt, og brúdkaup lambsins blída, vid bol og syndir kvitt, þegar óvini alla, einn hefur látid falla; er þad traust ætíd mitt.

15. O! hvílík dýpt audæfa, og eilífrar speki Guds, sjest þá sú gefst oss gæfa, ad gæta þess fognuds, er

þínum þá þú veitir, þreingíng í dýrd umbreytir, leidir til eilífs auds.

16. Hverr kann sem hæfir prísa, svo háa Drottins nád, ad enn þá vill upplýsa, med ordi sínu lád, og þad-med afli mestu, eptir vanþackir flestu, er hønum fékk heimur tjád?

17. Heidur á himni' og jørdu, Herra Gud! æ sé þér, heidur af þinni hjørdu, hvar sem í verøld er, heidur med hljómi snjøllum, af heimsins verum øllum, og þinna minnstum mér.

## 46. Sálmur.

Avarp til heimsins. Sama ár.

Lagid: Lángar mig í lífs høll.

Lýsir Drottins ljós nú, ljómandi um hvern reit, vakna heimur vid þú, vanhyggjan er ónít; undir þig í ást bú, ad medtaka Guds heit; hradt þínum hátt breyt.

2. Enn skýn ofs ord hans, um ádur Kristó kénd lønd, í krapti andans; annarsvegar ný bønd, leggur á lasta fans, lifanda Guds hønd, almennann einn vønd.

3. Hann kann ad jafna, hófleysi sérgott, oflæti dafnad, ágirni slæms

vott, fljótt láta kafna, fors, lausúng, dramb, spott, heims taka hefð brott.

4. Ef illa sem áður, er undirbúið heims lið, bani þá bráður, berst því að, en víðt hlíð, opnar alráður, eilífðar, og dóms mið, úti' er um öll grið.

5. Enn ef orðs blíða, alhug manna fær á, þá þarf ei kvíða, þó vér meigum hel sjá, hefst sælan fríða, heims eptir böls þrá, Guðs Syni sjálf hjá.

6. O. Drottinn mesti! alít þú í náð'mig, afpláná lesti, er áreittu tíðt þig; Frelsarinn besti! þín forþénan guðlig, mig frelsi frá fársstig.

## 47. Sálmur.

Bæn fyrir nákomnum. Sama ár.

Lagið: Gjæðskurikasti græðari minn.

O þú minn Guð! mitt lífsins ljós, í lífsins mæðu allt mitt hrós, mín von um eilífð alla; mitt ákall kémur enn fyrir þig, um þetta vyrðstu heyra mig, því æfi árum hallar; mér sýn, það þín, blessun mildi, veita vildi, og vaka yfir, ætthríng þeim gafst mér og eptir lifir.

2. Farsæl þú mína friði og náð, fá lát þá hjálp af þinni dáð, í öllu

hér sem hagar, leid þú hvørt sporid út og inn, á þeim svo verdi vilji þinn, um lífsins alla daga; í dag, hvørn dag, þá mun falla, þig ákalla, þeim sé yndi, gagnar þad bædi og gledur lyndi.

3. Tímanlegt ángur tempra þeim; vid tæling heims og holdsins geym, med þinum eginn anda; forda þeim synda freistni vid, fær þeim í hverjum háska lid, og þrautum allra handa; styrk líf, styrk líf, þeim sem kaldur, efri aldur, ángra kynni, geimdu þá úngu í ástsemd þinni.

4. Enginn veit hvílík hætta hér, hrelling og tæling búin er, á laungum lífsins vegi, vertu því hjá þeim hvørt eitt sinn, svo hjálpi í øllu kraptur þinn, en yfirgéfi aldregi; þín dád, dýr nád, hjálpargjørn, mitt hús og børn, vid hvørju geymi, affalli frá þér hér í heimi.

5. Ad þad sem gjørdir gott allt mér, goldid med syndum hefi þér, á ný þín nádin bæti, med því ad gjøra gott af þeim, á géfnum nidjum hér í heim, til dýrdar þér, Drottinn mæti! ad þeir, því meir, þóknist þér, sem meira mér, var margtom

syndin; heyr þad gjörvallrar gjæðsku lindin!

6. Víst er samlíking engin á, umhyggju þeirri eg sýna má, til andlegs lids heim úngu, þótt enn eg lifði lánga tíð, og lidsemd þeirri nád þín blíð, í hvörskyns þrautum þúngu, mun tjá, mest þá, heim á-rídur, heims í hrídum, hættu stærst-um, ad öllum vinum ödrum fjærstum.

7. Eins hlutar eg af alhug bið: ei leyfir þú þeir teingist við, illa og ógudlega, né láti þar til locka aud, lyst veraldar og brögdin traud, edur upphefdar vega; því hér, þad er, sannreindasta sædid lasta, sem frá-leidir, Gud! þínum vegi, og gjæfu sneydir.

8. Af miskun veittu þinni þad, þeir fái allir gridastad, í ríki ástar þinnar, ef þvert þér snúast ecki frá, en elska þín þá vinna má, sem eru ættar minnar. Manns hrís, helst kýs, heim til handa, en þinn anda ei burt tækir, frá heim, er hrösun heim þá sækir.

9. Drottinn! verdi til dýrdar þér, dásemd og náð er sýndir mér, öll, nú og æfinlega; yfirtak þinnar ást-

ar mest, á mér og mínum sjáist best, ætíð og alla vega; Guð minn! Guð minn! øll þín hjörð, sem himin og jørð, þér heiðran gjaldi, stjórni þína prísi um allar alldir.

## 43. Sálmur.

Bæn fyrir mønnum yfir høfuð. Sama ár.

Lagið: Allt mitt ráð til Guðs eg set.

HÆðsti Skaparinn allsherjar! er endurleystir skepnurnar, með synd er sárt þig styggðu, auðsær af því þín elskan er, í hennar trausti fram eg ber, bæn þá er best að byggðu.

2, Af ást þú skaptir alla fyrst, af ást frelstir fyrir Jesúm Krist, alla sem ei því hafna; láttu því frelsið heilagt hans, hjálpa sem mestum fjølda manns, þó syndum hafi safnað.

3. Upplýstu þá sem ecki af rót, íllskunnar góðu standa' á mót, eða þinn vilja ei akta; alla sem locka orð þitt má, alla sem brestur þecking á, en sannleik annars vakta.

4. Øllum tældum mót egin vild, úti lestina, náð þín mild, umvendun géfi aptur, allri hneixlan sem er til meins, og Satans brøgðum varni eins, þinn góði Guðdóms kraptur.

5. Og þar mögulegt ecki er, annad, enn þeir sem villast hér, á afveg adra leidi, medan þeir sjálfir afveg á, eru, og þannig líka þá, helgun og heillum sneydi.

6. Enn þú hlýtur, ef elskan þín, eydir nockra syndum og pín, alla synd upp þeim gefa, annars lægi þad á þeim enn, íllt sem þeim höfdu af fleiri menn, nád væri öll í efa.

7. Því bid eg reiknir þeim ei til, sem þeirra fyrir synda spil, á afveg mig einhvörn leiddu, ei heldur þeim mín athöfn blind, einhvörja fella nam í synd, sinn veg svo sídur greiddu.

8. Allt uppá þad eg ei tik meins, annars manns verdi sálu neins, og adrir ei mín gjaldi, heldur lagfærist hverr um sig, Herra! og megi prísa þig, sídan um allar alldir.

9. Auktu þitt ríki mest sem má, mönnunum, Drottinn! jafnan hjá, leid þá til lífs sem verdur; því audsærri mun ást þín gjörd, því ardmeiri þér þessi jörd, og Satans sigur skerdur.

10. Allt þad til dýrdar dauda hans, sem dó fyrir glæpi syndarans, svo hann frelsi sem flesta, og pris

hans megi um eilíf ár, úthrópa síðan skari klár, heilagra hópsins mesta.

11. Víst muntu, Drottinn! frelsi fá, fyrir hann þeim sem verda má, eptir alvitsku þinni; en þeim hjálpræði ei þyrda þitt, hvørnin skyldir þú gefa kvitt, allt þeirra íllsku sinni.

12. Þess vegna, margir þó þeir sé, þitt veldi líður eckért spé, algjæðskan allt eins ljómar, og þér til dýrdar einninn þá, 'allir hljóta sem gjørst að sjá, dásemd réttlætis dóma.

13. Þér sé lof fyrir þína náð, þitt sé vegsamað hjálpar ráð, um allar alldir allda, þess lát ei fara mig á mis, en meiga saungva þacklætis, í gladri eilífð gjalda.

## 49. Sálmur.

Bæn i tilliti daudans. Sama ár.

Lagið: Nú bið eg Guð þú náðir mig!

Híngað til, Guð! mig hefir leidt, háttum mínum til bóta breytt, línað andar og líkams neyð, líkn þín var mér svo hjálpar greið, von mína' og bænir hér í heim, hefir þú fyllt med gæðum þeim, nýu sjøundir sumra í dag, sjá létsku mig í glødum hag.

2. Þanninn flest allt uppfylltir þú, sem fremst í heimi æskti' eg nú; vissari miklu von þér á, verdt er eg hafi hédan frá, ad enda gjörir einninn kífs, og eilífs hjálpir mér til lífs; miskunsemdum svo margfoldum, minni' er eg þínum gjörvöllum.

3. Þar eg Frelsara mínum med, mjög skjaldan leid né vandi géd, eins og hæfdi, né heldur var, hans vegna' ad líða þrengíngar, verdugur hér, eg hugsa má, hvílíkrar gjædsku nít eg þá, ef svo án mædu frelsi finn, sem falla sýnist hagur minn?

4. Hér skulu allir heyra og sjá, ad hrópa þig er gagnsamt á, í sjálfri útlegd sem er nú, sigur á öllu géfur þú, (sinni þó ördug sýnist leid) synd og freistíngu, mædu og deyd; þykir ei verdt um þirna-stig, er þú til fulls hefur frelsad mig.

5. Daudinn ad vísu eptir er, ætladur hvörjum manni hér, og máské mótkast eitthvert skamt, sem allt til góda verdur samt; því léttara sem styttra strid, standi einkum þín nádin blíd, reidubúin nær þrýtur þad, í þinn ad leida dýrdar stad.

6. Eg bid, Drottinn! af alúd þig, ádur enn dey, ad hreinsa mig, alla saurgun míns innra manns, upp=brenna' en hylja lýti hans, klárum réttlætis kyrtli med, Kristí þíns Sonar, mitt svo ged, innlífast mætti' ad øllu þér, en allt sé gleymt sem brotid er.

7. Saurgun og lýti' er hreppti hold, hyl eins og eydast lát í mold, svo eckert verdi' eptir af mér, annad enn þad sem helgad er, og øllum syndum frelsad frá, fullsambodid því vera má, í þinni borg hvar útvøld þjód, alhreinsud er fyrir lambsins blód.

8. Ef hér skal landsins hitta børn, sú háskasótt sem mannleg vørn, ecki fær fordad ockar lýd, álags þíns eg þá, Drottinn! bíd; vardveita mig og mína þú, máttugur ert ef viltu nú; sé annars verdi vilji þinn, veit mér ad eg sé tilbúinn.

9. Ef kémur daudans ad mér nótt, í hverri sem þad verdur sótt, ei láttu hjartans ángurs þrá, of=bjóda mér í henni þá, heldur gef styrk og hrausta trú, heiløgum Anda

til mín snúi; við mína gjör þú alla eins, áður enn kenna dauða-meins.

10. Að því bendir minn aldur mér, að allskammt eptir lífsins er; orð þinnar náðar elskuríkt, ímyndar mér í svefni slíkt; þó máské dragist þetta um sinn, það er þó hjartans vilji minn, svo óverðugur eg sem er, að þess bending sannist á mér.

11. Að sjái eg Jesú elsku mynd, afleystur minni hverri synd; Drott-inn! brodds fyrir dauðans brot, dýrt meti minnar æfi þrot, svo það til lífs mér stutt sé stig, stór-lega sem að batar mig; þetta mér sanniſt óska' eg á, þó ecki sé mér verðung hjá.

12. Dýrð sé þér, Jesú! Drottinn klár, dauðann helfærdi kvöl þín sár, ef hennar nýt, sem ósk mín er, aflið hans mun ei granda mér; þegar það dynur dyrum að, dreyra sveita þíns heilagt bað, til liðs mér komi og líkni best, svo lofi þig um eilífð mest.

50. Sálm.

## 50.

Vers. Í Janúar: 1833.

Lagid: Eilífi lífid er æskilegt.

Lát mig óverdann enn nú sjá, ad þú bænheyrir mann, og ord þín rætist øll sem tjá, Endurlausnarinn vann, eilífi Gud! hvers innflot í, alla tilburdi heims, telst svo ríkt, sem eg trúi því, til nær hins mikla geims; syndu svo þína dýrdardád, dýrkendum þínum sanna nád, hádsmønnum bænar hér á mót, heilagann sannleik þinn; æ skal eg vitna' um alla bót, er ann mér þín trúfestin, og unna þér af innstú rót, alheima stjórnarinn!

## 51. Sálmur.

Í Majo. 1834.

Lagid: Reykandi hugarhjól.

Sjálfs fyrir Sonar deyd, sjádu til mín, Gud minn! lát mig um lífsins skeyd, líta sannleika þinn, ad bæn af øllu hjarta, af þér verdi þó álitin.

2. Uppfillta hofmód heims, hrekja med því eg má, treystendur sælu'

og seims, sannfæra líka þá, að þeir lastandi ljúgi, heit þín þar treysta ekkert á.

3. Þeir forsmá fáráðann, sem flýr til þín í nauð, forsmá og Frelsarann, sem fast oss biðja bauð, þeir spotta þig og lasta, bæn kalla þeir sé bóta snauð.

4. Eg vann þar ecki til, að heyrir mína raust, enn Jesú á eg vil, orðunum hafa traust; hann vann til heyrður vera, hét svo bænheyrslu vafalaust.

5. Hans er málefni mitt, mót þeim hans loforð smá; hátt nafn þú helga þitt, að heyrir, lát mig sjá; sannleik þinn sýndu vera, eins ljósann og þinn almátt þá.

6. Máta, stund eða stað, stíla þér vil eg síst, sýnt getur þú mér það, á þúsund vegu, sem lítst, fyrir atvik, öruggt sinni, og hagsbót að mig heyrðir víst.

7. Þanninn eg hrópað hef, Herra Guð! til þín þrátt, þú blítur utan ef, auglýsa mér þinn mátt, og

øll þín ord ad sanna, svo víst þitt guddóms vald er hátt.

8. Hlítur þú einninn hér, hvert eitt þó skilji ei nú, adferli ad ansa mér, engin vissari' er trú, enn í eilífd ad fullu; nema þér sjálfum neitir þú.

9. Í hafsdjúp hrekktu synd, ad hún sé eydd og frá, þróa svo þína mynd, þad hún mér skýni á, lát mig þér ætíd lifa, til dýrdar lifa medan má.

10. Allt bænheyr þetta þú, og þad sem skyldt því er, um slíkt hef eg í trú, ætíd bedid af þér, traust vildi eg aldrei eiga, sjálfum undir þid minnsta mér.

11. Hvar streyma yfir á, uppspretta gædsku þín, ef henni ecki ná, andvørpin þvílík mín, hvern heyrir? eflaust enganu, ef sviptir mína sál ei pín.

12. Nei, eckért ord fyrir þér, allrasíst hrópin slík, falid um eilífd er, né ord þín markleysu lík; Jesúm þú hlítur heyra, og hans lofordin enda rík.

13. Enn daudinn nálgast nú, nú endar brádum stig, þess vegna verdur þú, mér veita ad sýni sig, bænheyrsla berleg ádur, enn helja ber úr heimi mig.

14. Til þess eg trúar mátt, þá troda yfir skal, lof þér hefjandi hátt, hafi, þann myrkva dal, samt ad deyandi sýni, ad lofs þér hæfir eilíft val.

15. Láttu nú, Gud! mín ljód, lýsa þin sídstu blíd, ad mér þín ordin gód, øll reinbust lífs á tíd, og trygd þín engum bregdist, sem á þig treystir árla og síd.

16. Allt er jafnt audveldt þér, aldrei svo stórt né smátt; stjórn þín í øllu er, eckért er henni ofhátt; hví munt þá ei bænheyra? til brygda einna þig brestur mátt.

17. Ofullkomleikinn einn, ómøgulegur þér sjest, en eigi nockur neinn, náttúru gángur ver, krapt þínum ord ad enda, fyrr enn þad verdi, verøld hver.

18. Sjálfsøgd er Drottni dýrd, (Drottinn mun heyra mig), í heimi

hverjum skýrd, hún verdi æfinlig; hans nafn í öllu helgist! hver vera þar til helgi sig!

## 52. Sálmur.

Bæn og lof, þó í óstyrkvum þaunkum, í og eptir veikindin, sama ár í Augúst.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn!

Sú eina freysting sannköllud, sem frá þér kémur gódi, Gud! ad sýnist ecki heyra, hjartad þó á þig hrópi fast, vid hvad þad hlýtur örmagnast, enn hverja hörmúng meira; Gud minn! þræll þinn, í audmýkt bidur optar vid sér aldrei hræri, síst í daudanum sorgir stæri.

2. Af því hana þinn einka Son, öll mín líknar og frelsis vón, fyrir mig þoldi, og þreydi, hún geck yfir hann hrædilig, þá hrópadi af krapti á þig, á krossi ádur enn deydi: Gud minn! Gud minn! hví forlétstu mig þá mest var megnis pína! hann einn var fær um þá hógværd sýna.

3. Af kvalaflódi er yfir hann, í

minnum syndum sárþjáðann, géck, er eg umfær ecki, einn dropa standast, óska þó, að áft og trú á pîsl hans ró, mér veiti mesta, og hnecki, mér frá, meins þrá, syndum, nauða — sorgum, dauða og sárum pínum, og géfi mér sælu í Guði mínum.

4. Til sáluhjálpar að sendir hann, Son þinn eingétinn Guð og mann, bænheyrsla blítur frama; að þú sért Guð, og Guð fyrir mig, og géfir mér það bið eg þig, allt verður og hið sama; ei þér, þú hér, kannt afneita, né umbreyta náttúru þinni, né elsku syndri sálu minni.

5. Allur guddómur og öll þín verk, um það sannfæra hljóta sterk; þvílíka þú nú sýnir, mér að sannleikur eins þinn er, óendanlegur og gæðskan hver, (svo að sannfærast mínir, um þar, þánkar) sem þinn máttur í öllum áttum, og vísdómur, alls verður þarum einn samrómur.

6. Því hefur enn nú leift mér líf, lifandi Guð! er hels við kíf, hrópaði á þig af huga, og leifir þá eins eg

losi þig, lífi medan þú gædir mig, og þína náð øfluga, í neyd, og deyd, sjálfum prísi, en sídan lýsing sálar minnar, um eilífd á undrum ástar þinnar.

7. Elska sem einka Son gaf sinn, sannlega veitir mér hvert sinn, allt sem ei án má vera; gædskan sem hét ad heyra mig, hvergi mun apturkalla sig, þá bæn eg vil frambera; sýnd er, sú mér, elskurausn, nærst endurlausn hin allra mesta, þørf sem eg um bid fylla flesta.

8. Velgjørd því stærri eingin er, enn aumum syndara veita mér, þad sem eg þarf og beidi, Anda sinn fyrst og huggun hans, hjálprædis vegna Lausnarans, náð fyrir rétta reidi, og þá, þad fá, sem árídur, ár og síd í øllum greinum, gledji þad allt mig í Gudi einum.

9. Skammist þeir sín sem bera á brygd, bænar og Drottins hjálpar trygd, og Jesúi ord um þetta; géta til bregdist Guds tilsjá, Gud vid náttúru bundinn tjá, hróp til hans hyggja pretta; sig, þeim, hyggd, seim, ad Gudi þannin gjøra, en þann ei grand

á treysta, né af honum ætla sig endurleysta.

10. Nei, Drottinn tók mér freystíng frá, fast láti hann mig þar treysta á, þó vyrdist þolgéd auka, ef leggur nockud uppá mig, ad eg því betur trúi á sig, sem reyni hans sannleika; og mér, ad sér, vyrdist halda, um aldir alda, því eg vil kjósa, æ betur dýrd hans um eilífd hrósa.

11. Leif mér nú, Gud! eg lofi þig, lífi medan þú gædir mig, og mest á dauda degi; en þér sídan hinn ædsta prís, sem einn ert gódur, trúr og vís, um aldir alda segi. Gud minn! Gud minn! allar verur offri þér í einu hljódi, eilífri lofgjørd, þú eini gódi!

## 55.

### Andláts vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Jesús dó fyrir sút og synd, sem á mønnunum lá, eg fæ því deya aum mannkynd, eymdum og syndum frá; hann ríkir nú í Drottins dýrd, og dýrdar árnar mér, eg fæ því lifa í hans hyrd, hvar aldrei skælan þver;

hans kærleik lít eg hædum í, hann prísar sína elsku' á því, þvílíks syndara sem eg var, sálu ad hafa frelst, hvad mikil dýrd sem hønum þar, heidur og lotning velst, øll mín lofgjørd til eilífdar, aldrei því jafnvæg telst.

## 54. Sálmur.

Bænar og lofsálmur. Sumarid 1836.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Hvad skal nú segja sál mín þá, sjálfur Gud allra gæda, vyrdist til mín í miskun sjá, meir enn eg um kann ræda? svo mørg og þúng sem synd mín var, sem ord má ei til finna, uppspretta nádar eilífrar, á henni bót nam vinna; sér allt sýnandi minna.

2. Hvad skal eg segja er sje og finn, svo marga stórum betri, hraja, og ødlast aforisin, í daudans myrkva setri? krapt mér og þekkíng Gud minn gaf, gjørdi opt hrísa' úr naudum; láni því nýtti' eg lítid af, lét eptir gørndum snaudum; líktist lifandi daudum.

3. Verdsladi' eg pundi varla því, sem vann mér Gud ad unna, leckdi og stundum líka í, løstu mér adra kunna; í stuttu máli einginn var, eptir tilstølu ad kalla, veittra þarfa og þéckíngar, þar med bendínga allra, verri mér, edur varla.

4. Hvad gjørdi nú sá Herra dýr, heilagi og réttláti, er sannleiks dómi síst umsnýr? því sá var æ hans máti, ad refsa øllum ógudleik, og ei sig láta bleckja, en hegna þeim í vondsku veik, verdlaunum synda og hreckja; þad hefir hverr mátt þeckja.

5. Hann mig sparadi híngad til, hlífdi vid naudum sárum; hann gaf mér tóm og tímabil, trúr fram ad elli árum; sérhvørju leysti fári frá, svo fyrirfórst eg eigi, lífsins veg þrátt mig lockadi á, lof er mest verdt eg segi; þad fram ad þessum degi.

6. Hann lagdi á mig lítinn kross, léttann hjá syndum mínum, hann baud mér ástar bestann koss, med bæn ad nádum sínum, leita, hreinsun og líkn ad fá, og láta af íllum

vanda? í traústi Krists sig trúa á, og tilraun gjøra ad standa; hér til gaf hjálp síns Anda.

7. Hvad er eg þess, minn Herra! þó, ad hlaut þá gjædsku rísa? af sømu rót sem Son þinn dó, fyrir sjálfs þíns nád eilífa, og kom ad frelsa alla menn, ádur til fulls tapada, óvini þína ordna senn, og eyda synda skada, mig vill þín miskun lada.

8. Til þess ad allt sért allstadar, og nádar stærd sig sýni; en mikilleikur miskunar, á mér og øllum hríni, sem dregid fær til Frelsarans, þín Fødur ástin hreina; allt géfur þú þó efni manns, endurlausnar, og beina, bendíngu andans eina.

9. Ritníngar orda sje eg sann, á sjálfum mér og teikna: sáluhólpinn og sæll er hann, synd Gud er ei tilreiknar, og hvers misgjørdir Herrans blód, hylur svo ei má finna; ó hversu var sú gjædskan gód, sem glæpa sektir minna, tók burt, en trú lét finna!

10. Vonadi eg ávalt víst á þig,

og vildi þér, Drottinn! hlýða; af því gat náð þín unnið mig, að til þín snéríst síðan; þó gafstu øll til efnin fyrst, upplýsíng, bendíng, hræríng, øll tækifæri að efla lyst, og orða þinna læríng, huggun og náðar næríng.

11. Því gatstu dregið þar til mig, þinnar miskunar leita, og í brennandi bænum þig, sem best eg gat við þreita; enn Jesú hlutu orðin þá, endilega að rætast: að heyrir hvern þig hrópar á, Herra! og lætur kætast, og andarbøl allt bætast.

12. Þau hlutu sannast því á mér, þó sé óverðugastur, að þinn sannleikur aldrei þver, eilífur er og fastur, allt eins og gjæðskan endalaus, og allur þinn guddómur; þar fyrir ønd mín þakka kaus, svo þinnar náðar hljómur, eilífur yrði rómur.

13. Forþénan Jesú eilíf er, sem opnað veginn hefur, øllum sem leita eptir þér, og anda sinn þeim géfur; manngreinar álit allt er frá, því alla synd hann bætti; øllum þess-

vegna þú vilt tjá, þína náð og alsætti, er bidja af øllum mætti.

14. Svo sprettur þá af sømu rót, søun bænheyrsla í þ'num, sem endurlausnar algjør bót, eilífum kærleik þínum; hvertveggja géfid allt eins er, af skjærri miskun snjøllu, óverdugum af sjálfum sér; svo þú sért allt í øllu, einn Gud í himnahøllu.

15. Overdugleika enganu því, álíttu', en styrk mér veitir, sálu mína og sinnid í, svo jafnan þess og neyti, til ad vegsama' af allri ønd, áft þína guddómlega, medan lifi, þín heiløg hønd, hjálpi mér allavega, ad sigra sérhvern trega.

16. Sérlega hefur þú sýndann mér, þinn sannleik, ei fyrir laungu, ver þú mig því og hjálpa hér, frá hugarfari raungu; svo eckért vantraust ángri mig, en eilífa frábæra, náð þína' í øllu þecki og þig sem þú lætur tímann færa; og lof þitt fái ad læra.

17. Ofdjarflegá ef á eg kný, ei mátt láta mig saka, veikleiki bædi

veldúr því, sem vinnst mér ei burt-taka, og þinnar dýrdar ákøf gyrnd, í øllu sjást svo feíngi, en ord þín verdi aldrei fyrnd, øll verold þó forgeingi; þetta eg þrái leingi.

18. Enn þad þú hefúr endurleyst, og bænheyrt svo stórsekann, sem einn þú gjørst ad øllu veitst, ást til þín heimtir freka, svo elski' eg þig og þinn Son meir' (þar til veit hjálp og trygdir) enn allir hinir adrir þeir, uppgaffstu synd og hrygdir, þeirra mest þig eg stygdi.

19. Enn frelstum þinni elsku af, þó ei sem ber, þig prísi, síst muntu nauda søckva í kaf; sjer þú þad, Gud alvísi! ad eg hata sérhvørja synd, med sønnum hjartans leida, og heimsins lysting allri í vind, vil ætíd slá, en greida, hrós þér, og holdid deyda.

20. Af eginn verdleik einginn má, í augsýn þinni standa, þar er eins fjærri sjálfur sá, sig mest er nádi vanda, ef þad var ecki af ást vid

þig, og náð þín hønum vægir, eðá ef stærir af því sig, og athøfn sína frægir, en drambi burt ei bægir.

21. Aptur til mín eg orði vík: þó øllum sælum minni yrði, sem náð þín elskurík, í eilífð gleður þinni, en þig lofaði af øllum best, ónóg þacklæti væri, og ófullkomið einninn mest, elskunnar Faðir kjæri! hjá því sem þér það bæri.

22. Já, þótt að sællra anda orð, allra þá samstemmandi, lofuðu þig á lífsins jörð, fyrir líkn þá ómælandi, að náða slíkann eins og mig, ofdauft það hlyti heita, og ecki verðug þøck fyrir þig, því sáluhjálp svo neyta, meira var verðt mér veita.

23. Enginn skapaður andi má, ástverki slíku lýsa, sem vera ber, sig sjálfur má, sannur guðdómur prísa, og Jesús Son þinn eingétinn, að sauð hans hinn tapaða, ljúfur kjærleiki leysti þinn, og lét ei syndir skaða, ástsemd hans gjørir það glaða.

24. O Guð! nú þarf eg Anda þinn, svo aldrei meir þig styggi, og guddóms kjærleik óskilinn, ei upp frá þessu hryggi; veiti hann stadleik, styrk og dáð, ad standa í elsku þinni, og Laúsnarans í ljúfri náð, lídi hún síst úr minni, í tíd né eilífdinni.

25. Svo ordi, verki eda hug, med engri synd eg spilli, óníti í gódu engann dug, né afbrot nockurt hylli; heldur þig losi hvern einn dag, og hverja eina stundu, hvert augnablik, í hverjum hag, heims medan er á grundu, gladur med ljúfri lundu.

26. Sú lofgjörd vagsi æ og æ, og andláts mest á tíma, hvar eptir sælu höfn þá næ, heims laus vid allann líma, eflist hjá þér um eilífd mest, svo enn þá betur lýsi, öllu sem gjördir allra best,

eilífi Guð og vísi! þig allar ald-
ir prísi!

27. Alls Skapara sé eilíf dýrð,
eilíft vald, lof og vegur! Endur-
lausnara allra skýrð, eilíf tign, prís
guðlegur! eilífum sannleiks Anda
Guðs, eilíft hrós jafnan sendist! í
fullkomnun þess alføgnuðs, sem
öll til sælu vendist, til þess eilífð-
in endist!

